FJÓRIR ÞÆTTIR



# UM ALÞÍNG

OG

## ÖNNUR MÁLEFNI ÍSLENDÍNGA,

GEFNIR ÚT

AF

**MAGNÚSI EIRÍKSSYNI**

OG ÖDRUM ISLENDÍNGUM.



KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ *J. D. KVISTI*,

BÓKA PRENTARA OG NÓTNA.

1843.

Vèr gaungum, því miður, að því vísu, að sumir muni verða til að taka það upp, eins og eitt dæmi með fleirum uppá þá framhleypni og hlutsemi, sjálfgæðíngskap og margar aðrar -semir og -skapi, sem á þessum "síðustu og verstu tímum" hafi farið vaxandi meðal úngra Íslendínga utanlands, að vèr gefum út þenna ritlíng; vèr vitum vel, að ámeðan ýngismennirnir innanlands lifa hógværliga og spakliga með enu danska Motto: *"Beskedenhed er en Ynglings skjönneste Dyd"*, eru þeir utanlands í lakara lagi kynntir, að minnsta kosti sumstaðar, fyrir uppreistaranda þann sem í þeim vakir, ekki einúngis móti kaupmönnunum, heldur og líka móti "faktórunum"; ekki einúngis móti faktórunum, heldur jafnvel móti "miklu meiri mönnum", móti — "asin-húsbóndigóður-stintunum". Hvað verzluninni og hennar þjónum viðvíkur, þá verður því reyndar aldrei neitað, að um það efni hafa ískyggiligar ritgjörðir, á drauga hátt, með höfuðið undir hendinni (því þær eru nafnlausar), stundum hitzt á ferð í Kaupmannahafnarpósti á næturþeli (því Kaupmannahafnarpósturinn kemur út á kvöldin). Því verður ekki heldur neitað, að þetta eru mikil tákn og

stórmerki, og verðugir fyrirrennarar fyrir þessari seinustu sendíngu til Kammerráðs, riddara Melsteðs og Íslandsvinarins. — Veslíngs Íslandsvinur! — hefðum við vitað að svo mundi fara! Íslandsvinurinn er sálaður og jarðsettur í Berlínga tíðindum; það fór leyniliga fram, því enginn veit hverr talaði yfir gröfinni, og fylgðum við honum þó allir til grafar sem þessa bók útgefum; við sáum ekki prestinn, en eins var og fyrir okkur bæri svartur maður, forneskjuligur, með höfuðið undir hendinni, nafnlaus; ræðuna heyrðum við samt, og hún var kröptug. — Bara ekki fari eins fyrir kammerráði, riddara Melsteð, því nú rætast ritníngarnar:

Austur kem eg yfir fjöll
einn um kaldan vetur,
það er nú mín ætlan öll
yður að drepa . . . . .

Vera má samt að það sè ekki svo hræðiligt sem það lítur út til: Íslandsvinurinn kann af tómri ást til Íslands að hafa dáið úr landfarsóttinni sem gekk heima í sumar, og þetta með höfuðlausa prestinn — það kann að hafa verið míssýníng. Hvað Herra Melsteð viðvíkur, þá erum vèr búnir að biðja fyrir honum; vèr höfum beðið lengi og heitt; vèr byrjuðum á sjálfa þrenníngarhátíðina, þegar hann lèt fyrst til sín heyra í Berlíngi; þegar draugurinn okkar svaraði í "Föðurlandinu" beiddum vèr enn lengur; þó höfðum vèr þángað til, einsog vökudátar eða sjómenn, skipzt til á

bæninni, eptir því sem hverr þreyttist í hnjánum að krjúpa; en þegar Íslandsvinurinn fór að taka málstað hans, þá sáum vèr ekki var lengur til góðs að gjöra: vèr lögðumst allir á knè og beiddumst fyrir í samfleytta 3 tíma; sumra bæn var: libera nos, o domine, a furore . . . . (frelsa oss, ó herra, frá æði! . . . .), en flestir sögðu: "Guð varðveiti oss fyrir vinum vorum, fyrir óvinum vorum skulum vèr gæta vor sjálfir". Ef að nú bæn hins rèttláta má mikils, þá vonum vèr að Herra Melsteð sè óhultur að sinni.

En, án gamans — vèr álítum hæverskunni, eða rèttara sagt, ótímabærri feimni vera illa við komið þar sem um framfarir Íslands er að gjöra; og þareð bæði sumir af oss hafa kjörgengis kosti eptir kosníngarlögum þeim sem nú eru þegar viðtekin, og hèr er ekki um neina óhlýðni eða uppreistaranda að tala, heldur að eins um rèttan skilníng á orðum konúngs vors og tilgángi hans, álítum vèr oss hafa fullan rètt, og ekki að eins fullan rètt, heldur og skyldu vora álítum vèr það, að styðja hið góða málefni eptir veikum mætti; þessvegna höfum vèr íslenzkað og látið prenta ritgjörðir nokkrar, sem staðið hafa í dönskum blöðum nú í sumar um málefni Íslands, einkum alþíngismálið; vèr höfum snúið beggja meiníngum, bæði þeirra sem á móti oss eru og þess sem er á voru máli. Nú geta landar vorir sjálfir dæmt, og látum vèr ritgjörðirnar tala, en leggjum ekkert orð þar í.

Mart væri það að vísu, sem áríðanda væri um að tala, á þeim tíma, sem að öllum líkindum mun verða markverður í Íslands sögu, ef vèr viljum ekki sjálfir leggja kapp á að svipta það allri sögu, ef vèr spyrnum ekki á móti því, sem má leiða oss fram til endurlífgunar, ef vèr köstum oss ekki niður í straum skynseminnar, eða búum til vegg úr sjálfum oss til að stífla hann og draga úr honum kraptinn.

Það eru köst í þjóðalífinu fullt eins og í mannsæfinni, þegar allt snýst til gæfu; það er eins og forsjónin hendi til, að nú sè tími að sá sæði til enna ókomnu alda, til þess að eitthvað sè til mótstöðu þegar aptur blæs á móti; þá viðrar vel fyrir þjóðunum, og hverr góður búhöldur nýtir ekki tækifærið þegar það gefst? Í því hefir ávallt guðsneisti hinna miklu manna í veraldarsögunni sýnt sig, að sjá vel til veðurs einsog góðu formennirnir og róa þegar gefur. — Þetta er nú alltsaman myglaður sannleiki, en sannleiki er það samt, og þessvegna ítrekum vèr hann á þessum stað. Vèr segjum: **Íslendingar! nú gefur,** rói þið nú! — Vèr segjum: konúngur vor hefir náðarsamliga veitt oss mikin velgjörníng, hann hefir sýnt oss það traust, að lofa oss sjálfum á vorri eigin slóð að ráðgast um málefni föðurlands vors, og kynna sèr vorar meiníngar; hann hefir gefið ráðsamkomu þessari nafnið "Alþíng", sem ekki væri raunar mikils vert, ef vèr vissum ekki að hann vill benda oss með því til að ná

aptur líkri stöðu í sögu vorrar aldar einsog forfeður vorir höfðu á ennm beztu tímum ens forna alþíngis; vèr vitum að konúngur hefir sagt: það er synd að þetta hið gamla, merkiliga land, frelsisins og vísindanna heimkynni, skuli nú þokast myrkrunum nær og nær; það er synd, að land það, sem áður var sögunnar eigið land, það skuli nú sjálft ekki lengur neina sögu hafa, að það skuli vera álíkt og klakajarðhús, í hverju frægð sjálfs þess og Norðurlanda geymist óskert og óskemmd, meðan það dettur sjálft utan af frægðinni, af því íbúar þess hafa niðurnýdt það. Þetta og mart fleira vitum vèr konúngi hefir borið fyrir hugskotssjónir, og það hefir honum gengið til að setja alþíng á ný; því finnst oss og varla mega minna heimta af þeim, sem gjöfina hafa þegið, og það þvílíka gjöf, enn að þeir færi sèr hana í nyt með öllu leyfiligu móti.

Á mart viljum vèr minnast: — á kosníngarháttu; ekki ena ytri — þeir eru ákvarðaðir — heldur ena innri; vèr vildum minnast þess, hvernig þeim manni ætti helzt að vera háttað sem vera ætti talsmaður ættjarðar sinnar; "vèr vildum", einsog enn enski mælskumaður, Brougham lávarður, segir á einum stað, "helzt velja oss einarðan mann, frjálslyndan, fjörugan og úngan, — ekki af því æskumaðurinn sè hins aldraða jafníngi, því hann vantar jafnan reynslu hans og hyggni, alvörugefni hans og festu, heldur vegna þess, að frá æskunni er ens nýja von"; framtíðin er

eign hinna úngu; og loksins lagar æskumaðurinn, einsog Pitt (einnig mælskumaður enskur) sagði, þann brest, að vera ekki nógu gamall, með aldrinum; þarámóti á öldúngurinn ekki eins hægt með að nema helmíng burt af áratölu sinni. Þess vildum vèr enn geta, er oss þykir miklu varða, á hvern hátt helzt skyldi bera mál fram, og margs fleira, en oss vantar bæði rúm og tíma, það tvennt, án hvers ekkert verður einusinni hugsað, og þessvegna kveðjum vèr hèr landa vora, biðjum þá vel að virða, lesa fljótt en dæma seint, og fyrir alla muni ekki misskilja oss; — misskilníngar koma mestu illu af stað í heiminum, og misskilji þèr ekki oss og tilgáng vorn, þá erum vèr sannfærðir um að vèr verðum allir á eitt sáttir.



# I.

## ATHUGASEMDIR
### UM RÁÐGJAFARÞING Á ÍSLANDI, MEÐ TILLITI TIL ÞESS, ER RÆDT HEFIR VERIÐ UM ÞAÐ MÁL Á FULLTRÚAÞÍNGI Í HRÓARSKELDU.

Þá er embættismannanefndin í Reykjavík hafði borið fram uppástúngur sínar og kveðið upp álit sitt um, hversu hentugast mætti skipa ráðgjafarþíngi sèr á Íslandi, átta eg að vísu von á, að þá er búið væri að birta störf hennar og leggja þau undir almeníngs dóm, mundi þau eiga að sæta hörðu prófi, og mætti vera að mörgu yrði fundið og það jafnvel með ymsum hætti, bæði á Hróarskelduþíngi og af þeim, er kynni þykiast hafa tilefni til að láta í ljósi álit sitt um málið á prenti. Eg hafða og von um, að próf, það, er með þessum hætti lá fyrir störfum nefndarinnar, mundi hjálpa til að bæta það, er nefndin hafði aðgjört og efla þíngið, það er stofna skyldi, og byggja af því frumefni, er nefndin lagði til, og fyrir þær sakir beið eg með fagnaði, að dæmt yrði um uppástúngur nefndarinnar, enn þótt hardt yrði í það farið. Þar á mót átta eg eigi von á, að menn, er með öllu eru lausir við að þekkja nokkuð til hlýtar til á Íslandi, mundi stínga upp á svo "stórkostligum" breytíngum á frumvarpi því, er samið var af mönnum, er vel þekktu til í hvívetna, og íhuguðu málið eð ýtrasta í alla staði, að ef farið yrði eptir uppástúngum þessum, þá·

má svo að orði kveða, sem aðalatriði frumvarpsins sè ónýtt. Því síður átta eg von á, að hugsunarsamir Íslendíngar, er vel voru kunnugir ásigkomulagi og högum fósturjarðar sinnar, mundi fallast á slíkar uppástúngur; en allra síst átta eg von á, að landar mínir, þeim er sá vegur var veittur, að mæta af hálfu fósturjarðar sinnar í þíngstofu í Hróarskeldu, skyldi stínga upp á slíkum breytíngum á frumvarpinu og nefna endurbætur, er eigi að eins mundi í raun og veru steypa þeirri undirstöðu, er nokkurr hluti af frumvarpinu er á bygður, sá er mjög er áríðandi, — en það eru kosníngarlögin, — og vilja þó að öðru leiti halda undirlagi þeirra — heldur mundi og af sèr leiða ena mestu ósamkvæmni og óhægindi. Og þó er allt það, er eg þannig átta eigi von á, komið fram. Kristensen, einn af fulltrúunum í Hróarskeldu, og málafærslumaður við landsyfirdóminn, hefir álitið, enn þótt hann hvorki þekki eða geti þekkt vel nè mikið til ásigkomulags Íslands, að sèr bæri að stínga upp á mörgum og mikilvægum breytíngum á frumvarpi til lagaboðs um skipun alþíngis, því er en íslenzka nefnd hafði samið, og stjórnin að því leiti samþykkzt, og meðal annars er sú ein uppástúnga hans, er með öllu steypir þeirri skipun, er á er gjör í frumvarpinu um tölu fulltrúanna, og samþykkt er í einu hljóði eptir ena ýtrustu íhugun af mönnum, er vel þekkja til, og undir þessum uppástúngum þykir fulltrúa þeim, er nú var nefndur, svo mikið komið, að hann álítur, að ef eigi verður á þær fallizt, þá muni alþíng verða að alls engum notum, og eigi einusinni vert að stofna það. Þar á mót hefir hann farið þeim orðum um uppástúngu ennar íslenzku nefndar um kosníngar fulltrúanna, er honum þykja of fáir, að í því efni hafi til skaða fyrir sannar þarfir Íslands verið farið um of eptir þíngskipun Dana, og þó verður fulltrúatala á Íslandi eptir uppástúngu nefndarinnar fjórum sinnum meiri, enn hún er nú í Danmörku. Íslendíngar þeir, er búa í Kaupmannahöfn, hafa eigi að eins fallizt á

uppástúngur Kristensens, og hafið þær upp úr skýjunum með vegsamligum orðum, jafnframt og þeir fóru svo orðum um atgjörðir ennar íslenzku nefndar, sem aptraði þær, að þíngið, er ætlað var Íslandi, yrði skipað haganliga, og traðkaði með sjálfræði og þvermóðsku ætlun hátignarinnar, konúngsins, þá er ljósliga var ber gjör. Þá hafa og fulltrúar Íslands, Grímur amtmaður Jónsson og Finnur etazráð Magnússon, eigi að eins fallizt að aðalefninu til á breytíngaratkvæði Kristensens, heldur og borið fram uppástúngu til svo gagngjörðrar breytíngar á kosníngarlögum þeim; er en íslenzka nefnd hafði stúngið upp á, að svo má að orði kveða, sem þeim sè með öllu steypt; og þessi breyting segja þeir að sè svo áríðandi og liggi svo beint við til endurbótar á kosníngarlögunum, að enni íslenzku nefnd er borið á brýn, að henni hafi af aðgætsluleysi sèzt yfir hana.

Að vísu hefir konúngsfulltrúinn þegar í þíngstofunni rèttlætt frumvarpið svo nógsamliga fyrir mótmælum þeim, er hafin hafa verið í móti því, og sýnt með svo gyldum ástæðum, hversu rángar sè þær breytíngar-uppástúngur við frumvarpið, er bornar hafa verið upp, að óþarfi mætti þykja að hreifa meir við því efni, og að vísu er og senniligt, að nú sè þegar útkljáð um málið eða því svo nær, að athugasemdir þessar komi of seint, til að hafa nokkur áhrif á álykt málsins. En þar eð eg hefi átt mestan þátt í samníngu frumvarps þess, er víða hefir orðið fyrir hörðum dómi, svo og þareð eg þykist geta leidt mönnum fyrir sjónir utskíríngar nokkrar og athugasemdir, þær er hjálpa megi til, að lagður sè rèttur dómur á málið, og mótmælindi þau, er fram hafa verið færð, metin að rèttu, þá get eg eigi annað enn álitið að mèr beri að láta í ljósi á ný álit mitt um málið, sakir þess, er rædt hefir verið um það á þínginu í Hróarskeldu. Til þessa finn eg mig enn fremur kvaddan, bæði fyrir þá sök, að sjálfur eg þóttist hafa tilefni til, skömmu eptir að uppástúnga ennar

íslenzku nefndar hafði verið send til stjórnarráðs þess, er við átti, að bera fram uppástúngu um gagngjörða breytíng á kosníngarlögum þeim, er nefndin hafði stúngið upp á í einu hljóði, svo og sakir þess, að fulltrúar Íslendínga féllust á breytíngar-uppástúngur Kristensens málafærslumanns, án þess að hafa áður, þá er þeir voru með í nefnd þeirri, er kveða skyldi upp álit sitt um málið, fyrifram hreift nokkuð við slíku; því af þessum sökum mætti vel svo fara, að þeir, er fylgt hafa með athygli með því, er rædt hefir verið um þetta mál, ímyndaði sèr, að embættismenn á Íslandi væri eigi færir um að ná vissu áliti, því er byggt væri á ljósri þekkíngu og staðfastri sannfæríngu, um nokkurt mál. En eg að mínu leiti vildi ógjarna stuðla til, að slíkt álit, er og á alls engum fæti er byggt, næði að komast á eða festa rætur.

Nú, er eg hefi þetta mælt að upphafsorðum, ætla eg að færa fram nokkrar athugasemdir um breytíngaratkvæði þau, er gjörð hafa verið við frumvarpið til lagaboðs um skipun alþíngis.

Um breytíngaratkvæði Kristensens málafærslumanns við 2ra grein frumvarpsins, að í alþíngi sè 42 menn þjóðkjörnir, í stað þess að þeir áttu að vera 20 eptir frumvarpinu, þá er eg algjörliga sannfærður um, að ekki ein rödd á Íslandi, sú er að nokkru sè merk eða metandi, mun verða uppástúngu þessari meðmælt; og eg get eigi að því gjört, að mèr þykir allkynligt, að 19 atkvæði skuli hafa orðið með uppástúngu þessari á þínginu í Hróarskeldu, og enn meiri firnum gegnir, að fulltrúar Íslendínga skuli hafa fallizt á hana, þrátt fyrir enar ljósu ástæður, er konúngsfulltrúinn færði fram í móti henni. Atriði það, hve margir menn skyldi vera í alþíngi, hefir á sínum tíma verið íhugað eð ýtrasta af enni íslenzku nefnd, og er rædt var nákvæmliga mjög og ýtarliga á marga vegu, hve leysa mætti vandaspurn þessa, þá urðu allir í einu hljóði sáttir á það, er fallizt er á í frumvarpinu. Um

þessa grein var fyrst leidt til íhugunar, að eptir uppástúngu nefndarinnar, þá fengi Ísland eptir tiltölu fleiri fulltrúa, enn ef til vill nokkurt land í heimi, og einkum var þess gætt svo sem áður er á vikið, að á Íslandi yrði fjórum sinnum fleiri fulltrúar eptir tiltölu, enn í Danmörku. Þar eð nú því næst var ráð fyrir því að gjöra, að allur þorri þeirra alþíngismanna, er bæði væri kjörnir af þjóðinni og settir af hátigninni, konúnginum, yrði enir dugligustu og skynsömustu af landsbúum, þá er eigi þess að vænta, eptir því sem hèr stendur á, að alþíngi aukast mundi til nokkurra muna vitsmunir og dugnaður, enn þótt alþíngismönnum væri fjölgað töluverdt. Þar á mót var öllu fremur að óttast, að ef alþíngismönnum yrði fjölgað, þá mundi það, hversu sem færi, lengja orðræður á fundum og gjöra málalengíng, án þess að mál yrði til muna betur rædd eða með gyldari rökum, enn þótt það eigi í öðrum greinum trublaði þíngstörf, er vankunnandi mönnum væri um of eptir tiltölu veittur kostur á að verða alþíngismenn. Enn var ein ástæða, sú er ein hlýtti, og yfir allt tók, en það var sú, að ef alþíngismenn yrði töluverdt fleiri enn nefndin hafði stúngið upp á, þá yrði kostnaðurinn of mikill, og mundi þjaka landsbúum. Að útlendir menn, þeir er eigi þekkja ásigkomulag Íslands eða fjárhag Íslendínga, gjöra lítið eða ekki neitt úr þessari ástæðu, er hún varnar þeim að koma einhverju fram, því er þeim leikur ljúfur hugur á, fer að vísu eigi fjarri lagi; svo er og skiljanligt, að enir íslenzku bóknámsmenn í Kaupmannahöfn, er með æskufjöri hafa lagt allan hug á, að einir og aðrir hlutir, þeir er almennt eru hafðar miklar mætur á, komist á á fósturjörðu þeirra, án þess að þeir hafi nægiligan undirbúníng til að dæma um, hve slíkir hlutir eigi við, hafi líkan skoðunarmáta; en ef enir íslenzku nefndarmenn, er náliga allir eru hnignir á efra aldur, og hafa lengi gegnt embættum með atorku meðal alþýðu á Íslandi, og þekkja fyrir þá sök vel á ásigkomulag hennar

og hagi, hefði annaðhvort eigi gætt ástæðu þessarar eða gjört of lítið úr henni, þá hefði þeir með sanni á ótilbæriligan hátt vanrækt enar helgustu skyldur og brugðizt trausti því, er stjórnin hafði á þeim. Ef alþíngismönnum yrði fjölgað eins og Kristensen málafærslumaður hefir stúngið upp á, yrði kostnaðaraukinn hvorki að eins 2000 dala, svo sem Kristensen málafærslumaður, ásamt fleirum, hefir ætlað, nè heldur að eins 3000 dala, svo sem Grímur amtmaður Jónsson hefir gjört ráð fyrir, heldur þar á mót hèr um bil 4000 dala, eða að minnsta kosti 3600 dala.

| | |
|---|---|
| Vera þíngmanna á þíngstaðnum, að minnsta kosti í 31 dag, mundi kosta í tæripeníngum . . . . . . . . . . . | 2046 d. |
| Til ferða þíngmanna fram og aptur verður eigi gjört ráð fyrir skemmri tíma enn 12 dögum èptir meðaltali, og tæripeníngar um þenna tíma mundi verða . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 792 - |
| Í ferðakostnað verður eigi lagt minna í eptir meðaltali enn 36 dalir á mann, eða í allt . . | 792 - |
| | Samtals 3630 d. |

Reikníngur þessi, er fremur er of lágur enn of hár, er enganveginn settur af handa hófi, en hann er bygður á áreiðanlegum reikníngum yfir, hvað ferðafè og tæripeníngar nefndarmannanna í Reykjavík hafa kostað landið, og er þess munar gætt, er leiðir af uppástúngu þeirri, er gjörð hefir verið um að minka tæripenínga. Það eitt ráð, er til þótti takanda um fulltrúa fjöldann, auk þess, er nefndin stakk upp á og tínt er í frumvarpinu, var að láta 16 af enum stærrum kjörþíngum velja hvert 2 fulltrúa, og 4 en minnstu: Reykjavík, Vestmannaeyjar, Norðurþíngeyjar og Strandasýslu, kjósa hvert einn, en talan 36, er þá varð upp á á þjóðkjörnum fulltrúum, þótti mjög svo um of stór, einkum að því er kostnaðinn snerti. Ef ráðligt hefði þótt sakir annarra hluta að stínga upp á, að fulltrúar væri svo margir, þá mundi og hafa þótt nauðsyn á að stínga upp á, að tæripeníngar yrði settir niður til 2gja

dala um daginn. En enginn dirfði sig að stínga upp á slíku, því eigi mátti fyrir sjá, til hvers mundi leiða, ef alþíngismenn væri eigi gjörðir nokkurn veginn skaðlausir með daglaunum, enn þótt eigi væri með öllu til fullnustu, og þótti eigi ólíkt, að ef svo væri gjört, þá mundi að því bera, að margir þíngmenn, slíkir, að þíngið mætti eigi sèr að skaðlausu án vera vitsmuna þeirra og dugnaðar, kæmi eigi á þíng. Sagt hefir verið, að alþíngismenn ætti að vera 48, þar eð svo voru margir í alþíngi enu gamla, og þar eð boðið kvað vera í allra hæstum úrskurði á 20sta d. maím. 1840, að skipan ens nýja alþíngis skyldi vera svo samkvæm, sem unnt væri, skipun ens gamla alþíngis; en bæði er það, að litlu skiptir um eina eða aðra tölu, eins og Moltki greifi sagði í Hróarskeldu, enda eru rök þau, er tekin eru af tölu alþíngismanna að fornu, rammskökk og engu nýt; því tala alþíngismannanna, er *kjörnir* voru til *ráðgjafar* á enum elztu tímum, voru 96 en eigi 48, og eptir að búið var að sameina Ísland við Noreg, þá voru lögrèttumennirnir 84 en eigi 48. Rakaleiðsla sú, er undirstaða er ástæðu þeirrar, er nú hefi eg í móti risið, er og vottur um fásýni þá, er nokkrir landar mínir vilja reyna að kippa öllu aptur í það horf, er á var fyrir alda öldum, og er vera má, að þá hafi átt við, en mundi nú þar á mót aptra öllum sönnum og öblugum framförum í þjóðlífi voru. Nú er nokkrir hafa ætlað, að rödd þjóðarinnar mundi mega sèr meir hjá stjórninni, ef fulltrúum væri fjölgað, þá er sú ætlan að vísu eigi annað, enn all undarligur misskilníngur. Þá er það reynist, að óskir þær eða ráð, er bornar eru fram af alþíngismönnum, sem lögligum erindsrekum þjóðarinnar, eru á góðum rökum bygðar, og haganligar til að efla heill þjóðarinnar, mun stjórnin, enn þótt eigi sè fleiri þjóðkjörnir menn í þínginu enn til er tekið í frumvarpinu, eigi láta þær sem vind um eyrun þjóta, heldur þvert á mót fara gjarna eptir þeim og gæta þeirra sem ber. En þar á mót mun eigi vitur

stjórn og réttlát álíta samkvæmt skyldum sínum að gegna óskum alþíngis, eða fara að ráðum þess, enn þótt í því væri hálfu fleiri, ef sú yrði reynd á, að óskir þær, er fram væri bornar, eða ráð þau, er á væri lögð, væri annað tveggja eigi vel íhuguð, eða eigi samkvæm heill þjóðarinnar. Að eg fari eigi mörgum orðum hèr um, þá mun verða komið undir ástæðum þeim, er fram verða færðar, og eigi tölu alþíngismanna, að hve miklu leiti þíngið nær að mega sèr mikið hjá stjórninni eða eigi. Að lyktum verð eg, fyrr enn eg skilst við þessa grein, enn að geta þess, að með engu móti tjáir að fallast á uppástúngu Kristensens málafærslumanns, er hann vill svipta Reykjavík og Vestmannaeyjar rètti þeim, er þeim ber eptir frumvarpinu, til að kjósa einn fulltrúa hvorju, og vil eg um þá grein skírskota til ástæðna þeirra, er konúngsfulltrúinn og Finnur etazráð Magnússon hafa tilfært í Hróarskeldu, og knýti eg því einu við, að engi þeirra, er í voru nefndinni í Reykjavík, þekkti til hlýtar til á Vestmannaeyjum, enn þótt þeir væri nákvæmliga kunnugir hvervetna annarstaðar um land allt, og getur það að nokkru leiti sýnt og sannað, að nauðsyn er á, að eyjar þessar fái rètt til að velja einn mann í alþíng.

Um kosníngarlög þau, er til eru tekin í frumvarpinu og Reykjavíkurnefndin hefir stúngið upp á, þá hefir nefndin sjálf viðurkennt, að margt, er miklu skipti, væri að lögum þessum, og einkum hefi eg reynt að koma til leiðar, að mál þetta yrði ýtarligar rædt, þar er eg, eptir að störfum nefndarinnar var lokið, senda til ens danska konúngskansellíis frumvarp um kosníngarlög, er breytt voru, og betur áttu við Ísland að minni hyggju. Því var þess að vænta, að svo tækist vel til, að á þínginu í Hróarskeldu yrði stúngið upp á breytíngum á kosníngarlögum þeim, er en íslenzka nefnd hafði stúngið upp á. Von þessi hefir og eigi heldur brugðizt, því enir íslenzku fulltrúar, Grímur amtmaður Jónsson og Finnur etazráð Magnússon,

hafa, þá er þeir voru í nefnd þeirri, er falið var á hendur að semja álitsskjal um málið, lagt fyrir þíngheiminn atkvæði minna hluta nefndarinnar, það er þess efnis var, að 7du grein frumvarpsins yrði breytt þann veg, að kosníngarrèttur og kjörgengi, er eptir frumvarpinu báru að eins jarðeigendum og æfifestubændum á konúngseignum og veitíngajörðum, þeim er að lögum skal til ábúðar leigja, skyldi og ná til allra leiguliða, þeirra er hafa 20 hundraða jörð æfilángt eða að áratali, svo og til embættismanna, er búa sjálfir á embættisjörðum, er þeim hafa veittar verið, og svo eru dýrt metnar, sem nú var greint; en von sú, að uppástúnga þessi til breytíngar á kosníngarlögum frumvarpsins mundi kippa ágöllum þeim, er loða við frumvarpið, í liðinn, hefir að mínu viti brugðizt með öllu.

Uppástúnga minna hluta nefndarinnar, sú er áður er um getið, hefir reyndar það mark og mið, að rýmka bæði kosníngarrètt og kjörgengi. Svo er og bert af orðum Gríms amtmanns Jónssonar, framsögumannsins, og annarra, að bæði þeir menn, er báru fram uppástúnguna, og fleiri af þeim, er urðu henni meðmæltir, hafa ætlað, að hún að eins miðaði til að rýmka aðalskildaga þann fyrir kosníngarrètti og kjörgengi, er fallizt hefir verið á í frumvarpinu, en eigi til að ónýta hann; en eptir útskíríngu þeirri, er Grímur amtmaður Jónsson hefir gefið um uppástúngu þessa *), að "er eigandi býr sjálfur á jörðinni, þá hefir hann kosníngarrètt þann, er henni fylgir; en er annarr maður hefir jörðina til ábúðar, fær hann kosníngarrèttindi öll og eigandi verður af þeim", þá er bert, að uppástúnga þessi rýmkar eigi aðalskildaga þann fyrir kosníngarrètti og kjörgengi, er settur er á í frumvarpinu samkvæmt kosníngarlögum Dana, en ónýtir hann og steypir honum, þar eð hún *sviptir eiganda* rjettindum þessum og *veitir* þau *ábúanda*, því þótt eiganda sè leyft eptir uppástúngunni

*) Sjá Frèttir frá fulltrúaþíngi í Hróarskeldu 1842, bls. 213.

að nota kosníngarrètt jarðarinnar, er hann býr sjálfur á henni, þá er þó auðsætt af þræðinum í allri uppástúngunni, að ábúðarrèttur en eigi eignarrèttur heimilar eiganda þetta. Breytíng sú, er uppástúngan mundi leiða til á undirstöðu þeirri, er kosníngarlög frumvarpsins eru á bygð, er og miklu yfirgripsmeiri, enn ráða er að uppástúngumennirnir hafi ætlað, því að öðrum kosti mundu þeir eigi hafa látið vera að benda þíngmönnum á, að af uppástúngunni leiddi, að annaðtveggja yrði að ónýta með öllu margt það, er á er kveðið í frumvarpinu, eða breyta því mjög. Svo yrði til að mynda að engu sú ákvörðun, að leggja mætti saman fleiri fasteignir í sama kjörþíngi, og byggja þar á kosníngarrètt og kjörgengi, jafnt og sú ákvörðun, að sá, er á jarðir í ymsum kjörþíngum getur notað kjörrèttindin í hverju kjörþínginu sem hann vill; og mætti fleiru hèr við bæta.

Jafnvel þó eg geti eigi annað enn álitið, að en mikilvæga breytíng á undirstöðugreinum þeim, er kosníngarlög frumvarpsins eru á bygð, sú er eg hefi þegar sýnt, og leiða mundi af uppástúngu þeirri, er nú hefir verið um rædt, ef á hana yrði fallizt, sè í öllu tilliti fráleit og illa tilfallin, má þó vera að verkanir þær, er uppástúnga þessi hlyti að hafa, ef hún fengi framgáng, með tilliti til ásigkomulags kosníngarmanna þeirra, er kjörnir yrði eptir henni, og þíngmanna þeirra, er kosníngarmenn þessir skyldi velja, yrði en allra ísjárverðustu eptirköst hennar. Því uppástúngan mundi svipta bæði kosníngarþíngin og fulltrúaþíng það, er þau kysi, — en andligt magn og dugnaður fulltrúaþíngs þessa mundi bezt sýna, hve kosníngarmenn væri að sèr gjörvir — mörgum enum dugligustu mönnum, þeirra er að mundi verða notið, ef farið væri eptir kosníngarlögum frumvarpsins, því öllum, er til þekkja, er kunnugt, að ekki að eins margir menn andligrar stèttar, heldur og margir í veraldligri stètt, þeir er eiga töluverdt í jörðum og leigja þær öðrum, búa sjálfir ýmist á embættisjörðum,

og ýmist á jörðum, er þeir hafa leigt af öðrum, og annað hvort eru ómetnar eða undir 20 hundraða dýrleik, en það er minnst tekið til í uppástúngunni um fasteign, þá er veita skal leiguliðum eða ábúendum á embættisjörðum kosníngarrètt og kjörgengi. Allir jarðeigendur þessir, og eiga sumir þeirra þó harðla mikið í fasteign, mundu eptir uppástúngunni missa bæði kosníngarrètt og kjörgengi, og optastnær án þess að landsetar þeirra gæti orðið rèttinda þessara aðnjótandi. Eg vil útskíra þetta nokkuð gjörr með fám dæmum. Eg þekki embættismann nokkurn andligrar stèttar, og er að öðru leiti dugnaðarmaður mikill og vel viti borinn; hann á 8 jarðir og eru allar samt nærfeldt hundrað hundraða að dýrleika. Prestssetrið, er embættismaður þessi býr á, er eigi metið hærra enn til 12 hundraða, og fyrir því mundi hann hvorki ná að hafa kosníngarrètt nè kjörgengi, þó hann noti embættisjörð þessa, eða búi á henni; og þar eð engin af jörðum hans, þeirra er áður er getið, er metin hærra enn til 12 hundraða, sökum þess að fasteign er svo lágt metin víðasthvar í bygðarlagi því, er þær eru í, þá mundi enginn af landsetum hans ná kosníngarrèttindum eptir uppástúngunni. Margir enir merkustu jarðeigendur hèr í sýslu, bæði andligrar stèttar og veraldligrar, mundu á sama hátt eptir uppástúngunni sviptast kosníngarrètti og kjörgengi, þar eð þeir búa ýmist á embættisjörðum, og ýmist á eignarjörðum einstakra manna, þeim er minni eru enn svo, að ábúðarrèttur á þeim veiti kosníngarrèttindi, þar eð þær eru eigi 20 hundruð að dýrleika. Og meðal þessara manna er einn, sá er á yfir 20 jarðir, og eru meir enn 4 hundruð hundraða að dýrleika; hann hefir alla tíð búið á hjáleigu, er annarr maður á, og er í mesta lagi 5 hundruð að dýrleika. Þessi maður hefir um lángan aldur stýrt hreppstjórnarembætti með miklum dugnaði í einum enum stærsta hrepp á öllu Suðurlandi, og er einn enn víðlesnasti og sinnugasti almúgamaður, er eg þekki. Eg veit afar mörg dæmi líkrar tegundar, en þótt eigi sè

svo frábær sem þau, er nú voru talin, og svo mun og hverr sá, er til þekkir, geta til fært mikinn fjölda áþekkra dæma. En að hve miklu leiti kosníngarmenn og kjörgengir mundu að eins með tilliti til höfðatölunnar missa eða vinna við frumvarpið, eða með öðrum orðum: að hve miklu leiti tala fasteignarmanna þeirra, er eptir uppástúnguuni mundu missa bæði kosningarrètt og kjörgengi, mundi verða meiri enn tala ábúenda eða leiguliða, er aptur mundu fá rèttindi þessi, eða eigi, það voga eg eigi með vissu að ákveða, enn þótt eg fyrir mitt leiti sè viss um, að tala enna fyrr nefndu mundi verða meiri; því á öllu Austurlandi, — en jarðir eru þar metnar mjög lágt — er varla nokkurr einn leiguliði, sá er hafi 20 hundraða jörð til ábúðar, og á Vesturlandi mundi og tala slíkra leiguliða verða harðla lítil; en á Norðurlandi og suður, og þar eru jarðir að jafnaði metnar hærra, býr sjaldan einn leiguliði á enum stærrum byggíngarjörðum, þeim er 20 hundruð eru að dýrleika og meir, en þeim er þar á mót alloptast skipt á millum fleiri ábúenda. Mjög mikið gjörir og um til að mínka tölu kosníngarmanna og kjörgengra, að kjörkostur er hærri fyrir ábúanda enn eiganda; því ef kjörkosturinn hefði verið jafn fyrir hvorutveggja flokkinn, þá mundi margur jarðeigandi, er eptir frumvarpinu misti kosníngarrèttar síns, enn þótt hann væri jarðeigandi, ná að varðveita þenna rètt með ábúð á annars manns jörð, í stað þess að hann nú, enn þótt hann hafi slíka ábúð, hlýtur og að missa þessa rèttar, þar eð kjörkosturinn er hærri. En hversu sem háttað er um þær afleiðíngar, er uppástúngan mundi hafa í þessu efni, þá er með öllu óyggjanda, að þareð mikill hluti enna merkustu og skynsömustu jarðeigenda mundi sviptast bæði kosníngarrètti og kjörgengi við frumvarpið, þá mundi bæði kosníngaþíngin og fulltrúaþíngið missa við það miklu meiri vitsmuna og sanns dugnaðar, enn þau mundu hljóta með leiguliðum þeim, er aptur mundu fá kosníngarrètt og kjörgengi.

Ef bæta skyldi nú úr ágöllum þeim, er nú hefir verið bendt á, og annmörkum á kosníngarlögum þessum, með því að ákveða, að jarðeigandi skuli hafa kosníngarrètt og kjörgengi fyrir þá fasteign, er eigi veitir leiguliða rèttindi þessi, en það er sú fasteign, er metin er til 10 hundraða eða meir, en er undir 20 hundruðum; og er þó eigi í minnsta máta bendt til þess í uppástúngunni, og frumkvöðlar hennar hafa eigi heldur ætlazt til þess; það er og með öllu gagnstædt útskíríngu þeirri, er Grímur amtmaður Jónsson gaf um uppástúnguna, og áður er til greint: — þá er auðsætt, að kosníngarrèttur jarðeigandans, enn þótt hann, enn sem komið er, samkvæmt öllum ákvörðunum þeim, er uppástúngan styðst á, ætti að sitja í fyrirrúmi, mundi við það komast á harðla valtan fót og lúta í lægra hald, og verða með öllu kominn undir, hvort svo vill til, að leiguliðinn er svo að sèr gjörr og hefir það í aðra hönd að hann megi hafa kosníngarrètt og kjörgengi, eða eigi. Svo mundi t. a. m. sá jarðeigandi, er eitt ár hefir kosníngarrèttindi fyrir 20 hundraða jörð, sakir þess að sá, er á jörðinni situr, er að eins 24 ára gamall, missa rèttinda þessara næsta ár, þá er leiguliðinn hefði náð 25 ára aldrinum. Svo mundi og sá, er á 20 hundraða jörð, og eigi má eitt árið nota kosníngarrètt þann, er henni fylgir, fyrir þá sök, að sá rèttur hefir flutzt til ábúanda, næsta ár fá aptur rètt þenna, þar eð leiguliði hafði með leyfi eiganda látið nokkurn hlut af jörðinni til sonar síns eða tengdasonar, og árið þar á eptir mundi hann aptur missa kosníngarrèttinn, er sonurinn eða tengdasonurinn hefði tekið við allri jörðinni.

Slíkar ákvarðanir getur löggjöf sú, er lætur fasteign vera aðalskildaga fyrir þíngrèttindum, eigi á gjört, án þess að afar margar verði misfellur á. Svo er og harðla ísjárverdt, að láta rèttindi manna í þjóðfèlagi, þau er mest er í varið, vera komin undir allskonar smátilviljun; og er í því tilliti enn tvennt aðgætanda: *fyrst* að að vísu skortir á, að rètt sè á allt litið, er Grímur amtmaður

Jónsson hefir eigi viljað játa konúngsfulltrúanum í Hróarskeldu, að nauðsyn væri á, að festuskilmáli sá, er á skyldi byggja kjörgengi, hlyti að minnsta kosti að vera saminn fyrir 6 ár, því kynligt væri, ef kjósa mætti þann mann í alþíng, er að *því mætti vísu gánga*, að hann hefði mist kjörkosti sína laungu áður enn þíngtími hans væri á enda, þar eð byggíngarbréf á Íslandi eru optast samin fyrir 1 ár, — og eigi 2, eins og Grímur amtmaður Jónsson hefir sagt — og í *annann stað* ber þess að gæta, að mikill hluti leiguliða, og opt einmidt þeir enir dugligustu og skilvísustu, því á þeim hafa jarðdrottnar bezt traust, hafa enga byggíngarskilmála ritaða, og mundu fyrir þá sök eigi geta fengið kosníngarrètt, því ábúðin ein mundi þó að vísu eigi vera nóg til að byggja á þjóðþíngarèttindi.

Þá er eg nú þann veg hefi skírt frá, hve uppástúngu þeirri, er nú hefir verið rædt um, er háttað, þykjumst eg mega ætla, að það sè að orsakalausu, er Grími amtmanni Jónssyni hefir þótt sèr hæfa, að bregða nefndinni í Reykjavík um gleymsku eða skort á rèttu skynbragði og eptirtekt, þar eð hún hafði eigi fallizt á uppástúngu þá, er hann bar fram með Finni etazráði Magnússyni; og enn síður eru brígsl þessi af rèttum sökum hafin, er þess er gætt, að með berum orðum hefir verið rædt um að laga kosníngarlögin á þann hátt, er til er tekinn í uppástúngunni, og er þess getið í atkvæðum nefndarinnar á 13da d. júlím. 1839 og 30sta d. júlím. 1841, en allir nefndarmenn álitu, að ómöguligt væri í alla staði að skipa því máli svo, og væri það eigi í mál takanda.

En til þess það, er satt er og rètt, hvar sem helzt fram kemur, njóti þeirrar viðurkenníngar, er því ber, þá er eg fús að játa, að í uppástúngunni er í einu tilliti bætt um kosníngalög þau, sem eru í frumvarpinu til lagaboðs um alþíng, en það er í þeirri grein, að *kosníngarrèttur skal vera bundinn við hvert kjörþíng* eptir uppástúngunni, því eptir henni má að eins nota kosníngarrètt þar, er

kosníngarmaður hefir aðsetur sitt, í stað þess að rètt þenna skal nota þar eptir frumvarpinu, er fasteignin er, án þess að gætt sè, hvar eigandi býr. Breytíng þessi á kosníngarlögum frumvarpsins er mikil endurbót og sönn, og hefi eg eigi nógsamliga tekið fram, hve hún er áríðandi, í uppástúngu minni til kansellíisins, þeirri er allopt er á vikið í þíngræðunum, því á Íslandi er mjög títt, að jarðir þær, er í eru einhverri sýslu, eru eign utansýslu-manna, og mundi það, eptir því sem háttað er hèr á landi, gjöra mjög mikið um til að færri kæmi á kosníngarfundi enn ella, og deyfa huga manna á kosníngum, þar eð slíkir kosníngarmenn, er búa fyrir utan kjörþíngin, mundu eigi hirða um, að takast á hendur margar dagleiðir til að sækja á kosníngarfundi, og fyrir þá sök optast láta sig vanta; en endurbót þessi á kosníngarlögunum, er og fullkomliga eins vel má á koma með kosníngarlögum þeim, er eg hefi stúngið upp á, yrði of dýrkeypt, ef henni yrði á komið með öllum annmörkum þeim og misfellum, er á eru uppástúngu minna hluta nefndarinnar, eptir því sem nú hefir verið tínt og talið.

Nú þykjumst eg með athugasemdum þeim, er eg hefi þegar tilfærðar, veitt hafa nægiligan stuðníng til að lagður sè rèttur dómur á atkvæði það, er minni hluti nefndar þeirrar, er sett var í alþíngismálinu, bar upp fyrir þíngheiminum í Hróarskeldu, og þó svo megi sýnast, sem athugasemdir þessar sè eigi með öllu nauðsynligar, er gætt er málaloka þeirra, er á urðu í Hróarskeldu, þá má þó vera, að þær sè eigi að öllu óþarfar, þar eð líkligt er, að aðalflutníngsmaður atkvæðisins og bezti talsmaður þess verði í alþíngi, og mun hann þá að líkindum halda atkvæði þessu fastliga fram, og verja það með afli. En nú ætla eg að dirfa mig, að bæta nokkrum athugasemdum við um frumvarp það, er áður er um getið, og eg senda til ens danska konúngskansellíis, og stakk þar upp á breytíngum á kosníngarlögum þeim, er nefndin í Reykja-

vík hafði stúngið uppá. Að því leiti, að frumvarp mitt er bygt á tvöföldum kosníngum, þá þarf eg eigi lángan tíma eða mörg orð til að rèttlæta það. Kosníngarlög þessi hafa verið lögtekin í mörgum ríkjum þjóðverskum, og eptir þeim er farið í því landi, er allra landa er líkast Íslandi, en það er Noregur, og hefir þjóðin verið ánægð með þau, að því er oss er kunnugt, og eigi hefir borið á, að þörf hafi þótt að þeim væri breytt, eða nokkur hafi leitazt við það. Og má þá með góðum rökum segja, að þau sè til hlýtar reynd*). Margir ágætir rithöfundar í Danmörku hafa afdráttarlaust mælt með kosníngarlögum þessum sakir kosta þeirra í öllum aðalatriðum, t. a. m. maður sá, er í "Tidsskrift for Literatur og Kritik" hefir ritað álit sitt um rit "Munch-Ræders" um stjórnarlögun Norðmanna, og Monrað meistari í hans "Flyvende politiske Blade", þar er hann ritar um þjóðstjórnar uppástúngu Tuteins. Engan mun undra, þó mèr þyki mikið til hans koma, rithöfundarins, er eg gat fyrr um, og reyndar meir, enn til nokkurs annars rithöfundar með Dönum; og er Monrað kemst svo að orðum, að í "bræðslukeri tvöfaldra kosnínga aðgreinist enir betri partar þeirra, er mæta skulu af hálfu þjóðarinnar, frá þeim pörtum, er óæðri eru og óhreinir, og að hreifíngarabl það, er á að koma fulltrúum þjóðarinnar í fellíngarnar og gjörir það, ónýtist eigi eins við tvöfaldar kosníngar, og við of mikla takmörkun á kosníngarrèttinum, heldur komist í rètt horf", þá mælir hann með miklum sannindum og ablríkum. Nú er þess að gæta, hve kosníngarlög þessi mundu eiga við á Íslandi. Margir þeir menn, er hafa skírast yfirlit yfir ásigkomulag Íslands, og bera bezt skynbragð á það, hafa með berum orðum látið í ljósi við mig, að þeir áliti kosníngarlög þau, er eg hefi stúngið upp á, Íslandi hentust. Nefni eg til þess Bardenfleth kammerherra, er verið hefir stipt-

*) sbr. "Munch-Ræder" bls. 103—4.

amtmaður á Íslandi og eigi má Íslendíngum úr minni líða, og Bjarna amtmann þorsteinsson. Þá sèst og af orðum konúngsfulltrúans í Hróarskeldu, að rentukammer konúngs hefir mælt með kosníngarlögum þessum. Embættismenn allir og skynugir almúgamenn, þeim er eg hefi kynnt uppástúngu mína, hafa látið í ljósi, að hiklaust ætti að taka kosníngarlög þau, er eg hefi stúngið upp á, fram yfir þau kosníngarlög, er nefndin í Reykjavík hefir kveðið upp með. Jafnvel nokkrir af þeim, er í eru Reykjavíkurnefndinni, og hafa skoðað frumvarp mitt með forseta nefndarinnar, þeim er nú er, Hoppa kammerherra og stiptamtmanni, hafa og haft sama álit á því, en þótt þeir hafi eigi reynt að koma fram sannfæríngu sinni í móti áliti forseta. Að því er mèr er kunnugt, þá hefir enginn berliga mælt í móti, að vel ætti við að konúð væri á tvöföldum kosníngum á Íslandi, nema fulltrúar Íslendínga í Hróarskeldu, og Hoppi kammerherra í brèfi því, er ritað er 6ta dag októbers 1841, og sendi hann með því uppástúngu mína til ens danska konúngskansellíis. Svo hafa og Íslendíngarnir í Kaupmannahöfn, 7 ens 3ðja tugar, verið mótmæltir tvöföldum kosníngum í brèfi þeirra hinu alkunna til Kristensens málafærslumanns, en þótt þeir hafi eigi tekið það fram, en þeir hafa með berum orðum mælt með einföldum kosníngum. Fulltrúar Íslendínga hafa engar ástæður tilfært fyrir því, að þeir fallast eigi á uppástúngu mína, og hafa eigi einusinni reynt að hrinda rökum þeim, er eg hefi viljað sýna með, að tvöfaldar kosníngar væri einka hentugar á Íslandi. Fyrir því get eg eigi gjört mikið úr áliti þeirra í þessari grein, en þótt eg að öðru leiti viðurkenni atgervi þeirra og afbragðs dugnað. Eg get eigi heldur gjört harðla mikið úr áliti enna 27 Íslendínga um þetta mál, og ber þrennt til þess: fyrst það, að þeir eru flestir úngir menn og óreyndir, og hafa nýlokið fyrsta eða öðru lærdómsprófi við háskólann, og hafa fyrir þær sakir eigi átt færi á, að kynna sèr vel eða ýtarliga stjórnarhagi Íslands; í annann

stað þá hefir sá af þeim, er dæmt hefir um mál þetta með mestu viti og sinnugleik, og ætti því að meta álit hans meir enn hinna, játað í ritgjörð nokkurri, er prentuð er i "Kaupmannahafnarpósti" á 31sta d. ágústm. og 1sta d. septembers í fyrra — og þyrfti reyndar að öðru leiti að lagfæra hana í ymsu — að tvöfaldar kosníngar væri hentugar á Íslandi; og í þriðja lagi hafa þeir stúngið upp á, að einföldum kosníngum, þeim er þeir mæla með, sè fram farið með þeim hætti, er verst gegndi, og varla mátti finna annann verri, en það er með þeim hætti, að kosið sè á jafn mörgum stöðum og hreppar eru í hverju kjörþíngi, — og eru þeir víðast hvar á milli 8 og 14 — og þareð menn yrði þá að láta sèr lynda við ófullkominn atkvæðafjölda og atkvæði mundu dreifast fjarskaliga, þá mundu kosníngar jafnan verða komnar undir þeim hluta, er flestir kosníngarmenn væri í, og á þann hátt mundi sá maður opt verða kosinn í alþíng, er $\frac{9}{10}$du hlutar af öllum kosníngarmönnum í kjörþínginu segði um, að þeir óskaði eigi að hafa þann mann fyrir fulltrúa. Hoppi kammerherra hefir eigi tekið fyrir sig í brèfi því, er áður er um getið, að hrekja vörn mína fyrir tvöföldum kosníngum, en hefir að eins sagt í fám orðum, að "jafnan mæli nokkuð á móti" tvöföldum kosníngum; en orð þessi styðjast mestmegnis, ef eigi eingaungu, á því áliti: að kosníngarmenn hafi minni áhuga á tvöföldum kosníngum enn einföldum. Eg veit reyndar, að álit þetta er að nokkru leiti á góðum rökum byggt, og því hefir opt verið hreift af heiðvirðum rithöfundum; og í Danmörku hefir einn tekið það upp eptir annann, upp frá því að *Davíð* háskólakennari og *Holstein* heitinn greifi rituðu um fulltrúaþíngin i Danmörku; eg skal og varast að bera á móti, að rètt sè að fara eptir því í Danmörku, því þar þekki eg lítið til, og margt er þar með öllu frábrugðið ásigkomulagi Íslands. En er svo er mælt fyrir áliti þessu, sem eigi það eitt afdráttarlaust að ráða á Íslandi, eða að minnsta kosti að ráða ríkast, þá er

saunliga eigi gætt margra atriða, þeirra er mest er undir komið, og gæta ber. Eg er sannfærður um, að eptir eðli og ásigkomulagi Íslands, þá muni tvöfaldar kosníngar, ef þeim verður hagað svo, sem eg hefi stúngið upp á, vekja meir athygli manna að öllu samtöldu, og verða mönnum hugþekkari enn einfaldar kosníngar. Í sèrhverjum hrepp, er milli 30 og 40 búendur eru í, eru optastnær fáeinir auk prestanna, t. a. m. tveir, þrír, fjórir bændur, þeir er bera af öðrum í sinnugleik, vitsmunum og mentun. Menn þessir, er annaðtveggja eru eða hafa verið hreppstjórar, sáttagjörðarmenn, meðhjálparar og því um líkt, mundu verða teknir til kjörmanna af hinum kosníngarmönnunum, því þeir hafa optast traust þeirra á sèr, og eru mikils virðir af þeim. Slíkir kjörmenn, er bæði eru menn mentaðir og hafa átt þátt í sveitarstjórninni, og láta sèr því annt um alþjóðlig málefni, er hinir aðrir kosníngarmenn hirða lítt um, mundu verða miklu betur ánægðir með enar tvöföldu kosníngar, þar er atkvæði þeirra mega sèr næsta míkið, enn með enar einföldu, þar er atkvæði þeirra mundu svo að segja verða að engu innan um atkvæðamergð annarra kosníngarmanna, er eigi vita hvað þeir vilja, og snúast eptir allskonar tilviljun; og má þá heita að með þessum hætti náist *allur kjarni þjóðarinnar* til að taka þátt í enum tvöföldu kosníngum. Hinir kosníngarmennirnir mundu sumir hverjir heldur vilja eiga þátt í að kjósa kjörmenn, enn eiga alls engan hlut í kosníngum, — því svo að eins tjáir að rýmka kosníngarrètt svo mjög, sem eg hefi stúngið upp á, að kosníngar sè tvöfaldar — og í annann stað, þá mundu þeir hafa eins miklar mætur á að eiga rètt á að kjósa nokkra kjörmenn í hrepp sínum (optast milli 2gja og 6), þá er þeir þekkja og hafa traust á, eins og þó þeir ætti að kjósa einn fulltrúa fyrir allt kjörþíngið, og mundi það optast verða sá maður, að mestur þorri kosníngarmanna þekkti hann eigi sjálfur, og væri eigi færr um að dæma, hve hæfur fulltrúi hann væri. Ef tvöfaldar

kosníngar kæmist á og yrði lagaðar eptir ásigkomulagi Íslands, svo sem eg hefi stúngið upp á, þá mundu þær skapa einskonar líkamaheild með lífi, þá er bærðist og færðist jafnt áfram, og mundi hverr sá, er atkvæðisrètt ætti, sjá sèr markaðan bás, þar er hann væri sem liður í smíðinni, á þeim stað, er hann væri rètt settur eptir stöðu sinni og vitsmunum; en einfaldar kosníngar, er bygðar eru á fáræniligum kostum, mundu þar á mót valda allskonar sundurliðun og lausúngu, án þess að lífs yrði vart eð innra, eða limir líkamans næði að tengjast eð ytra. *Hoppi* kammerherra hefir og varla fullgjörla skilið tilgáng frumvarps míns, eptir því sem honum farast orð í brèfi sínu til kansellíisins, því er áður er nefnt; því hann segir, að aðaltilgángur þess sè, að komast hjá óhægindum, er á verða í ymsa staði eptir kosníngarlögum þeim, er nefndin í Reykjavík hefir stúngið upp á. En þótt það nú að líkindum mæli eigi alllítið með uppástúngu minni, að með henni má komast hjá óhægindum þessum, og mun reynslan fyrst sýna, hve mikil þau munu verða og hve þau munu trufla kosníngar, þá er það þó enganveginn einkatilgángur frumvarps míns, eða einusinni enn helzti tilgángur þess. Aðaltilgángur frumvarps míns er fyrst og fremst, að fá áreiðanligri kosníngarmenn og betur viti borna með tvöföldum kosníngum, enn unnt er, eptir því sem háttað er hèr á landi þegar eignir manna eru gjörðar að kjörkosti, annaðhvort með þeim hætti, er nefndin í Reykjavík hefir stúngið upp á, eða með öðrum hætti, hverr helzt sem er; og því næst vilda eg finna haganligri kjörstofn og skynsamligri enn þann, er nefnd þessi hefir hyggt á kosníngarlög sín. Um eð fyrra atriðið: þá vonar mig að eg hafi nógsamliga gjört grein fyrir orðum mínum í frumvarpi mínu, því er áður er nefnt, og vísa eg til þess; en um þá ena síðari grein vil eg enn bæta hèr við nokkrum stuttum athugasemdum: í frumvarpinu er tekið fram, að ef *fasteign ein* væri gjörð að skildaga fyrir kosníngarrètti

og kjörgengi, þá mundi að einu leitinu mörgum þeim, er svo væri mannkostum búnir, að þeir ætti öðrum fremur að hafa kosníngarrètt og kjörgengi, verða bægt frá rèttindum þessum, og hinsvegar þá mundu margir slíkir menn, að eigi væri hæfir að þeim bærist í hendur slík afbragðsrèttindi með þjóðinni, verða hluttakandi í þeim; og þótti mèr allvænt er eg sá, að fulltrúum Íslendínga í Hróarskeldu þótti lýsíng mín á ásigkomulagi Íslands sönn og nærfærin í þessari grein, en þó hlýt eg og að kveða upp, að þeir hafi alls engan rètt átt á að skírskota til formála frumvarps míns, því það, er þar er sagt, mundi öllu fremur ná til uppástúngu sjálfra þeirra, enn til þess, er þeir ætla sèr að berja niður. Náliga eins óskynsamligt og óhaganligt væri, að gjöra *lausafjártíund eina* að skildaga fyrir kosníngarrètti og kjörgengi, því margir enir dugligustu og greindustu bændur, einkum þeir, er búa við sjó, eiga eigi einusinni, enn þótt þeir, ef til vill, eigi töluverða fasteign, 10 hundruð í tíundbæru lausafè — og lægri má kjörkosturinn eigi vera, ef kosníngar skulu vera einfaldar, og ef kosníngar yrði tvöfaldar, þá mætti kjörstofninn eigi heldur vera hærri enn eg hefi stúngið upp á, því ella mundi of mörgum, þeim er hæfir væri, verða bægt frá kosníngum. *Tíundbærir fjármunir* er því kjörstofn sá, er einn er rèttur og á við á landi hèr, og fer rèttan meðalveg; en tíundbærir fjármunir er bæði *fasteign* og *lausafè, er til tíundar kemur.* Slíkur kjörstofn, er svo er rýmkaður, nær til *allra, er veita ber kosníngarrètt,* og bægir *engum* frá, *er hæfur er.* Hann nær yfir allt, er gjörir menn málsmetandi, eptir því sem á stendur á landi hèr, að því leiti sem unnt er að tiltaka það ljósliga og benda á það með sýniligum einkennum, og ef hann er hafður, þá má fara þann meðalveg, er eigi verður haldið ef byggja skal kosníngarrètt á *fasteign einni* eða *lausafjártíund.* Svo mundi og slíkur kjörstofn, er svo er áreiðanligur og yfirgripsmikill sem þessi, gjöra allar uppá-

stúngur óþarfar með öllu, þær er lúta að, að kosníngarrèttur og kjörgengi sè byggt á jafnvöltum fótum og skammvinn áhúð er á annars manns jörð.

Að því leiti, að uppástúnga mín er bygð á ótakmarkaðri kjörgengi, hefir hún eflaust geðjast mörgum betur, enn að því leiti að eg vilda koma tvöföldum kosníngum á með henni. Hoppi kammerherra, er nú er forseti ennar íslenzku nefndar, hefir t. a. m. eigi getað fundið neitt að frumvarpi mínu í þessu tilliti, þareð hann hefir í brèfi sínu til kansellíisins, því er áður er um getið, ráðið til að kjörgengi væri með öllu óbundin, og eigi væri neitt farið eptir fjárhag þeirra manna, er kjósa skyldi, en kosníngarlög skyldi vera einföld og bygð á fasteign. En hæði er það, að eg er sannfærður um, að stjórnin mun aldrei fallast á slíka uppástúngu, er eptir sannfæríngu minni er með engu móti í mál takandi, því þá mundi verða útsèð um öll þau ráð, er til þess lægi, að gjöra mætti sèr nokkurnveginn von um, að kosníngar tækist vel, eptir sem til hagar á landi hèr, enda hlýt eg að játa, að en þótt eg enn sè sannfærður um, að hættulaust mætti láta kjörgengi með öllu lausa á Íslandi, ef kosníngar væri gjörðar tvöfaldar, eins og eg hefi stúngið upp á, þykir mèr þó þessi grein í frumvarpi mínu nokkuð ísjárverð, því óbrigðul sannfæríng mín er, að á Íslandi hæfi eigi, að því er snertir skipun kosníngarlaganna, að láta þá hluti gánga úr höndum sèr, er tryggja mega kosníngar, og að einu leitinu nokkuð er í varið, en á hinu bóginn *hnekkja eigi haganligum kosníngum með takmörkunum, er þeim eru samfara.* Að vísu þarf eigi á Íslandi að óttast þesskonar afvegaleiðslu, er flokkur nokkurr í öðrum löndum of mjög er hneigður til, en hèr eru þó ýms fótakefli á sinn hátt, er verða mætti að falli öllum skynsamligum og viturligum viðburðum til að bæta smásaman rèttarskipun vora og fyrirkomulag á málefnum þjóðarinnar, eptir því sem á við vora tíma, ef eigi tekst að sameina allan þann dugnað, hyggindi og vitsmuni, er

til er hèr á landi, bæði í kjörþíngunum og fulltrúaþíngina. Ef stjórninni þætti því ísjárverdt að fallast á þann hluta frumvarps míns, er ræðir um óhundna kjörgengi, þá mundi eg að mínu leiti vera harðla fús á, að breyta frumvarpi mínu þannig, að til kjörgengi skyldi þurfa að minnsta kosti 10 hundruð í tíundbærum fjármunum, og mætti jafnvel, án þess að mikil yrði óhægindi að, eða óttast þyrfti, að kjörgengi væri markað óhæfiliga litið svið, gjöra enn meir að, og krefja 20 hundraða tíundar til kjörgengi, ef undirlag kjörgengiunar væri rýmkað, eins og eg hefi stúngið upp á, og hún hyggð á *tíundbærum fjármunum*, bæði fasteign og lausafè, er til tíundar kemur. Mætti mæta vel stinga uppá slíkum kjörgengis-skildaga án þess að óhægindi yrði að, ef kosníngar væri gjörðar tvöfaldar, og kjörgengi bundin við hvert amt (því sú ákvörðun virðist á góðum rökum bygð); því þá þyrfti kjörstjóri að eins að safna nöfnum þeirra manna, er kjörgengir eru, eða eiga svo mikið, er til kjörgengi þarf, í tíundbærum fjármunum, úr kjörskrám þeim er samdar eru fyrir hvern hrepp, og sem gjöra grein fyrir tíundbærum fjármunum sèrhvers kosníngarmanns, og svo búa til aðalnafnaskrá er nær yfir allt kjörþíngið. Nafnaskrá þessi yrði eigi fjarska stór, og þyrfti að rita 7 eða 8 skrár aðrar eptir henni, og senda amtmanni og öðrum kjörstjórum amtsins. Allt þetta væri hvorki mjög umsvifamikið eða mjög erfidt. Kosníngarlög þau, er eg hefi stúngið upp á, yrði með þessum hætti að einu leitinu *svo tryggilig, sem unnt er*, þareð kosníngar yrði tvöfaldar, og á hinn bóginn yrði þau *svo einföld, sem kostur er á*, ef farið er eptir kjörstofni þeim er eg hefi kveðið upp, því kjörskrám mætti haga á líkan hátt og hagað er tíundarskrám, er allt að þessu hafa verið tíðkaðar; þyrfti þá engrar ókunnrar eða flókinnar aðferðar með, og er það næsta mikils verdt á Íslandi.

Nú er eigi ólíkt, að einhverr kunni að spyrja, hví eg hafi eigi í þann tíð, er Reykjavíkurnefndin hafði málið

með höndum, borið upp frumvarp mitt, það er eg siðar samda, um skipun *kosníngarlaganna*. Hèr ber því að lyktum að greina frá, hve á stóð fyrir sjálfum mèr, og dirfi eg mig að geta þess, að eg var lasinn mjög, þá er seta nefndarinnar byrjaði árið 1841, og mátti því eigi leggja hardt að mèr. Enn fyrra helmíng fundar-tímans varð eg og að hafa að nokkru leiti til að ljúka við störf mín, er lutu að skoðun *Jónsbókar*. Þá er og, að slíkur safnaður, sem Reykjavíkursafnaðurinn var, er hafði náliga eins mörg mál til meðferðar og vinnudagar voru margir, og voru sum þeirra, málanna, mikil um sig og erfiðlig, er betur lagaður til að ræða um frumvörp, er þegar hafa verið samin, enn til að semja frumvörp af sjálfs dáðum, einkum önnur eins frumvörp, og frumvarp er um algjörð kosníngarlög, og er sannliga "eigi auðgjört, að hrista slíkt frumvarp fram í snatri". Fyrir því hlaut eg, þareð eg vilda og eiga þátt í meðferð annarra mála, að taka þann kostinn, að fara svo mjög, sem unnt var, eptir enum dönsku kosníngarlögum. Og er eg hafða hugsað um frumvarpið til ákvarðana þeirra, er þurfa þætti til að koma enum dönsku kosníngarlögum á á Íslandi, og fært það í letur, þá skírðist fyrst glöggliga fyrir mèr, að kosníngarlög þessi mundi aldrei, hvernig sem reynt væri að laga þau í hendi, verða hent á Íslandi. Eg áleit því skyldu mína, þá er eg mætta eigi undan færast, svo fljótt sem færi gafst að benda á undirlag annarra kosníngarlaga, er betur ætti við eðli og ásigkomulag Íslands, og senda það til stjórnarinnar. Og þó frumvarp mitt yrði nú á þenna hátt samið svo seint, að það hlaut að koma frá hendi eins manns, án þess að aðrir ætti þátt í því, og þó það fengi eigi, þá er það birtist fyrst hèr á landi, þann stuðníng, er það hefði fengið ef betur hefði staðið á, þá get eg allt að einu huggað mig við meðvitund mína, að eg hefi í máli þessu, er allra mála er mest undir komin heill og hamíngja ætt-

jarðar minnar um ókominn aldur, gjört allt, er mèr eptir kríngumstæðunum og veikum mætti var unnt.

Breytíngaratkvæði Kristensens málafærslumanns, það er lýtur að 43ðju grein frumvarpsins, og meiri hluti þíngmanna í Hróarskeldu hefir fallizt á, að eigi sè neinum leyft á alþíngi að mæla á aðra túngu enn íslenzka, get eg með engu móti samþykkst, en þar á mót hlýt eg enn að vera á sama áliti og áður, að ákvörðun sú, er til er tekin í grein þessari í frumvarpinu, sè bæði á góðum rökum hygð og vel ráðin, en þótt mælt hafi verið í móti henni í Hróarskeldu, en því öllu hefir konúngsfulltrúinn nógsamliga svarað. Með frumvarpinu til greinarinnar hefir einkum verið haft tillit til stöðu konúngsfulltrúans, því gjört hefir verið ráð fyrir, að í það sæti mundi að öllum jafnaði verða settur danskur maður, sá er kunnugur væri grundvallarreglum stjórnarinnar, þeim er farið er eptir þá er lög eru samin, og mætti á þann hátt, þar er hann væri settur á æðra sjónsvæði, veita enu íslenzka þíngi aðstoð þá og leiðbeiníng, er vera má að það þyrfti í ymsu, eins og ástatt er. Þar á mót hefir enganveginn verið gjört ráð fyrir, að jafnan mundi þykja sjálfsagt, að stiptamtmaðurinn á Íslandi skyldi vera konúngsfulltrúi; hefir verið ætlan manna, að það mundi verða þá að eins, er stiptamtmaðurinn væri maður margvitur og bæri gott skyn á lagasamníng, og væri starfmaður einka góður. Einkum mundi afar mikið verða komið undir kosníngu konúngsfulltrúa eð fyrsta sinn, er alþíng yrði sett, og yrði að vísu, svo sem forseti enna dönsku fulltrúaþínga, sá er áður var, komst eitt sinn að orðum, sem þjóðinni væri gefið þíngið öðru sinni, ef kosníng konúngsfulltrúa tækist einka vel í öndverðu. Að gjöra slíka ákvörðun, sem þá, er breytíngar-uppástúnga þessi miðar til, og svipta alþíng með henni stuðníngi þeim, er það í marga staði, svo sem nú er sýnt, mætti hafa af aðstoð dansks konúngsfulltrúa, væri eigi vel ráðið, og dræpi mjög niður sönnu gagni þjóðarinnar og þíngsins, ef

rètt er á það mál litið. En slíkum stuðníngi mundi þíngið þó sviptast, ef breytíngaratkvæðið yrði lögtekið; því eigi má neita, og reynslan hefir sýnt og sannað, að enginn danskur maður — nema ef taka mætti Rask einn undan — hefir fram á þenna dag náð svo mikilli þekkíngu á íslenzkri túngu, að hann á þá túngu mætti flytja lánga ræðu, og jafnvel ekki þeir menn, er verið hafa mörg ár hèr á landi, og enganveginn skortir kunnáttu á ymsar túngur eða túngunanæmi. Þar á mót geta útlendir menn hráðum æfst í að skilja íslenzka túngu, og eg hefi þekkt marga embættismenn danska, er eptir skamma dvöl á Íslandi hafa trafalalaust getað lesið og skilið íslenzkar ritgjörðir, svo og náð efninu úr ræðum er fluttar hafa verið á þá túngu. Annars vegar má óhætt gjöra ráð fyrir, að allur þorri þeirra manna, ef eigi hverr og einn, er kjörnir verða í alþíng, muni bera það skyn á danska túngu, að þeir munu nokkurnveginn til fullnustu geta náð efninu úr tölum, er fluttar eru á þá túngu; því jafnvel almúgamenn íslenzkir eða bændur, þeir er hezt eru mentaðir — og aðrir mundu líkliga eigi verða kjörnir í alþíng — hafa þá þekkíng á danskri túngu, er þörf er á í þessu tilliti og áður er á vikið. Óhægindi þau, er mundu rísa af túngnamuninum, og hanna alþíngismönnum og dönskum konúngsfulltrúa að eigast við, eða gjöra viðureign þeirra erfiða, mundu því í raun og veru annaðhvort hverfa með öllu, eða að minnsta kosti verða harðla lítil, og mundi verða hægt að fjarlægja þau, einkum þar eð þeirri ákvörðun hefir verið hætt við frumvarpið, að maður sè settur konúngsfulltrúa til aðstoðar, og mun sá maður eflaust jafnan verða Íslendíngur, og má fyrir þá sök álíta, að uppástúnga sú, er getið er í álitsskjali nefndarinnar (í Hróarskeldu) og samin er við 43ðju grein frumvarpsins, að maður þessi skuli og eiga rètt á að mæla á danska túngu, sè að minnsta kosti með öllu óþörf. Að öðru leiti þá var ætlan manna, að bezt ætti við að konúngsfulltrúinn og forseti á alþingi semdi um sín á millum, hversu haga skyldi þessu

máli, og var en 43ðja grein í frumvarpinu fyrir þá sök samin eins og hún er nú. Er því varla annað enn misskilníngur einn, er Grímur amtmaður Jónsson hefir reynt bæði í nefndinni og á þínginu í Hróarskeldu að fá til leiðar komið, að ýtarligar væri ákveðið um þessa grein í lögunum, því þetta er auðsjáanliga ein af ákvörðunum þeim, er lýtur að háttsemi einni eða annarri, og má hezt koma skipun á slíkt, er þíngmenn taka til starfa, og sjá hvað bezt hentar. Þar á mót má vera, að nauðsyn væri á og vel tilfallið, að ákveða í lögunum, að danskir menn, er eigi væri fullfærir í íslenzku, skyldi hafa rètt til að mæla á danska túngu á alþíngi, en Íslendíngar skyldi þar á mót *eigi hafa slíkan rètt*, því ef það væri eigi ákveðið mætti auðveldliga svo fara, að af því leiddi enn óþægiligasta ágreiníng og misklíðir, er Íslendíngar sumir, þeir er væri í alþíngi, gæti að einu leitinu vel tekið uppá að meina Dönum að neyta rèttar síns og mæla móðurmáli sínu, og í annann stað þá mætti svo fara, að stöku Íslendíngar, þeim er vera má að stundum veiti hægara að koma fyrir sig orðum um suma hluti á danska túngu enn íslenzka, einkum er rædt er um vísindamál, kynni af nenníngarleysi einu að taka sèr sama rètt og Danir, að mæla á danska túngu, og lengja með því að þarfleysu þíngstörf, eða gjöra þau erfiðari, ef eigi væri tekið fyrir hendur þeim með lagastafnum, og er líkt hefir áður við borið, mætti það auka ótta fyrir að slíkt kynni aptur til að vilja, og því meir hvetja til að koma í veginn fyrir það. Að því leiti að nefndur er "einhverr alþíngismanna" ásamt konúngsfulltrúa í 43ðju grein frumvarpsins, þá hefir einkum verið haft tillit til stiptamtmannsins á Íslandi, því gjört hefir verið ráð fyrir, að enn þótt hann yrði eigi einhverju sinni settur konúngsfulltrúi, þá mundi hann þó verða kallaður af konúngi til alþíngis, og mundi hann jafnan mega verða þar að góðu liði sakir stöðu sinnar, reynslu og vitsmuna, enn þótt hann væri eigi hæfur til að hafa á hendi sýslu konúngs-

fulltrúa. Þar á mót mundi þjóðin varla nokkru sinni kjósa danska menn í alþíng, og allra sízt danska verzlunarmenn. Að vísu ætti eigi að vanta á alþíngi menn, þá er bera skyn á kaupverzlun, en jafnan munu nokkrir þeir verða meðal Íslendínga, er þekkja á kaupverzlun, og er ætti fyrir þá sök að kjósa í alþíng, enda mundu slíkir menn og að líkindum verða kosnir.

`Nú er að lyktum að drepa á hreytíngaratkvæði Kristensens málafærslumanns við 78du grein frumvarpsins; ræður hann til að þíngstofan sè látin vera opin, er mál eru rædd. Meiri hluti þíngmanna hefir og fallizt á uppástúngu þessa, en eg get eigi heldur samþykkst hana. Eg held að minnsta kosti, að rèttast væri að bíða þángaðtil alþíngismenn hafa sjálfir lýst yfir áliti sínu um þetta mál. Þess ber og að geta, að hèr er eigi um tvennt að velja, að leyna því er fram fer, eða birta það, heldur á, þar sem birta má þíngstörf með ymsum hætti, að velja einhverja eina aðferð til þess; og í því tilliti er það eitt, að nokkru skipti, að atgjörðir þíngmanna sè birtar svo fullkomliga, sem unnt er, og verði kunnar um *allt land.* En þetta getur eigi í minnsta máta fremur orðið fyrir það, þó þíngstofudyrnar sè hafðar opnar; því eins og hèr stendur á, þá munu að líkindum eigi aðrir verða við *að staðaldri,* enn fáeinir iðjuleysíngjar úr *Reykjavík* og *þaðan úr nágrenninu.* Þar á mót mundu alþíngismenn, er eigi væri vanir að ræða mál í heyranda hljóði, og eigi tamt að flytja tölur á þíngum, eigi geta neytt sín, ef haft væri opið, einkum fyrst í stað.

Ritað í febrúar árið 1843.

P. Melsteð.

# II.

## SVAR UPPÁ "ATHUGASEMDIR" MELSTEÐS KAMMERRÁÐS UM ALÞÍNGISMÁLIÐ.

Í Berlíngatíðindum Nr. 150—153 þ. á. hefir Melsteð kammerráð komið fram með lánga ritgjörð um málefni það, sem fyrir alllaungu er á enda kljáð: viðvíkjandi fulltrúaþíngi Íslendínga. Vèr vitum ekki, hvort kammerráðið hefir heldur ætlað sèr: að færa konúngsfulltrúanum þakkargjörðarskrá fyrir vörn þá, er hann veitti í Hróarskeldu aðgjörðum ennar íslenzku nefndar; eða hann hefir ætlað á ný að gjöra sitt sárasta til að lypta Sisyphus-steini þeim, er valt aptur í fáng á Herra Leyndarráðinu, og eflaust mundi hafa molað hið ófimliga lagafrumvarp nefndarinnar í greipum honum, ef öðruvísi hefði á staðið. En einsog nefndin varð óhlýðin einmidt af því hún ætlaði að verða ofhlýðin, eins hefir og kammerráðið af tómum ákafa að verja það, sem ekki verður varið fyrir nokkrum heilskygnum manni, einmidt spillt málinu. Hann hefir verið svo ákafur að velta steininum, að hann hefir steypzt sjálfur ofan yfir hann, og aukið svo þýngd hans með þúnga sjálfs sín. Sèrhverr skynsamur maður, sá er þekkir til ásigkomulags á Íslandi, er fyrir laungu búinn að fella úrskurð á aðgjörðir nefndarinnar í Reykjavík, og má leiða en gyldustu rök til þess dóms. En dómur þessi er svolátandi: að nefndin hefir að vísu sýnt, að hún hefir getað komizt niður í ymsum minniháttar málefnum og lagt góð ráð á í einstökum greinum, en hefir enganveginn getað gjört sèr ljósa og fasta hugmynd um stöðu landsins og ásigkomulag þegar á allt skyldi líta, nè sett sèrhvert einstakt mál á þann stað sem það átti með rèttu. Nefndin hefir annaðhvort ekki þekkt landsins sönnu nauðsynjar, eða ekki gefið þeim gaum, eða ekki þorað að bera þær

fram. Fyrir þessa sök eru einmidt allra mikilvægustu málefnin lakast leyst af hendi, t. a. m. skólamálið [1]), spítalamálið [2]), og alþíngismálið, er vèr að þessu sinni ætlum að ræða nokkuð gjörr, útaf ritgjörð Herra kammerráðsins.

Það er alkunnugt að úrskurður Hans Hátignar konúngsins, er gaf Íslandi loforð um ráðgjafarþíng sèr í landinu sjálfu, er gefinn 20ta dag Maí mánaðar 1840. Það er enn fremur kunnugt, að þetta mál hefir verið sent öllum enum æðri embættismönnum á Íslandi til yfirvegunar, og það ef til vill optar enn einusinni, síðan að fulltrúaþíngin komust á í Danmörku; þá var og einnig samin hænarskrá því viðvíkjandi þegar árið 1837, og var það einkum að þakka framtakssemi þeirra Melsteðs kammerráðs og Thorarensens amtmanns, og umhyggju fyrir gagni landsins, er af öllum var metið þakklátliga. **Ekki allfáir af nefndarmönnum sjálfum höfðu þessvegna gefið álit sitt um málefni þetta til kynna**, og þaraðauki höfðu þeir **allir haft meira enn árs frest** til að íhuga málið, með því það var ekki fyrr rædt í nefndinni enn í Júlímánuði 1841. Því var og gyldasta ástæða til að vænta; *að* þeir

[1]) Það hefir verið sannað (Ný Fèlagsrit 1842) að í stað þess að nefndin hefir gjört ráð fyrir að skólasjóðurinn væri einúngis hèrum 50,000 rbd. r. s., er *óhætt* að meta eignir hans þrefalt meiri, ef öllu er til skila haldið, og talið er frá það sem honum hefir verið *órèttiliga* reiknað til kostnaðar.

[2]) Af því að nefndin hefir skoðað mál þetta allt *á* eina hlið, og mjög litilmannliga, þar sem það þó er svo mjög atkvæðamikið þegar um lækninga-fyrirhyggju stjórnarinnar er að ræða á gjörvöllu landinu — en fyrirhyggja þessi og læknasetníng hefir verið og er ennþá hræðiliga vanrækt — þá leiðir það: að fyrst er með því hnekkt allri endurbót *á* læknasetníngum á landinu, og einkum endurbót spítalanna, um svo lángan tíma að enginn getur fyrir sagt, og í öðru lagi hefir dugligur læknir íslenzkur, er bæði vildi og gat styrkt málefni þetta, orðið svo hvekktur *á* viðtökum þeim, er góður vilji og einlæg viðleitni hans mætti, að vera má hann sè nú ekki framar fáanligur til að skerast í það.

af nefndarmönnum að minnsta kosti, er helztir voru, hefði til hlýtar hugsað málið, og komið því fyrir sig til fullnustu; *að* þeir hefði safnað að sèr öllum þeim einstöku atriðum og skírteinum, er á einhvern hátt máttu hafa áhrifur á þetta mál, og einkum á högun kosníngarlaganna, er menn hafa þráfaldliga sagt að þeim hafi þótt svo mjög mikið á ríða; *að* þeir hefði hagnýtt allar þær greinir, sem föðurlandsvinir þeir, er af hjarta vildu styrkja gagn landsins, höfðu komið fram með málinu til upplýsíngar; *að* þeir hefði að minnsta kosti tekið fyrirheit Hans Hátignar konúngsins skynsamliga, samkvæmt konúngsins skýlausum vilja, og á þann hátt, er helzt mátti verða landinu til sannrar nytsemdar; og að síðustu, *að* ef þeir hefði ekki á 10 árum verið búnir að ná fullkominni þekkíngu á þessu máli, sem reyndar er bæði vandamál, og undir því "allra mála mest" komin velferð landsins seinnameir, að þeir þá annaðhvort hefði komið því til leiðar að fundartíminn væri lengdur, eða málinu slegið á frest eins árs tíma, svo þeir hefði ekki þurft að "hrista fram í snatri" slík kosníngarlög, sem aðalhöfundurinn sjálfur, Melsteð kammerráð, verður nú að játa, „að aldrei geti orðið hagkvæm landinu, **hvernig** sem reynt væri að laga þau í hendi".

En vèr megum með Herra kammerráðinu segja: að allt það er vèr ekki áttum von á er komið fram. Kammerráðið sjálfur, er nú segist vera aðalhöfundur lagafrumvarps nefndarinnar, hefir hugsað málið svo vandliga: að jafnskjótt og hann var kominn heim af fundi tjáir hann grundvöll þann, er frumvarpið er á byggt, með öllu óhæfan, hvernig sem að er farið, og reisir nú byggíng á nýjum grundvelli, sem hinum er með öllu frábrugðinn og styðst við tvöfaldar kosníngar; og er nokkrir hinna annarra nefndarmanna sjá frumvarp þetta, lítur svo út sem þeir ádráttarlaust mundi hafa fallizt á það, ef ekki hefði hitzt svo á að þeir voru nýbúnir að senda annað frumvarp er var hinu gjörsamliga frábrugðið,

er þeir kveða svo að orði, að þeir haldi að frumvarp sjálfra þeirra (hið fyrra) megi verða eins notagott, "ef kjörgengi væri látin laus". Já, kansellíið sjálft hefir um kosníngarlög ens fyrra frumvarps viðurkennt, að bæði "leiddi þau af sèr nokkur óhægindi og umsvif", og "gæfi ekki þá vissu, er menn mætti æskja, um áreiðanligleik kosnínganna[1])"; og á öðrum stað: "að það hefði verið[2]) ákjósanligt um sum atriði, að þau hefði verið nokkuð betur löguð eptir ásigkomulagi landsins".

Nefndin hefir kosið fasteignar-kjörstofn Prussa og Dana, án þess að hún, eptir því sem ráðið verður, hafi þekkt til hversu fasteignum er skipt í landinu, og því síður reynt til að kasta tölu á þá er kosníngarrètt mundu hafa, eða með öðrum orðum: búa til kosnínga-yfirlit eptir ymsum kosníngareglum þeim er fyrir hendi voru, að minnsta kosti í nokkrum sýslum. Þarámót sýnir það sig, að kosníngalög nefndarinnar eru tekin einsog að handa hófi, það er að segja einúngis eptir enni dönsku tilskipun, án þess ásigkomulagi landsins sè nokkurr gaumur gefinn, því Melsteð kammerráð segir nú sjálfur (í Berl. Tíð. Nr. 151 5ta dálki); að "á gjörvöllu Austurlandi sè varla nokkurr einn leiguliði, sá er hafi 20 hundraða jörð til ábúðar, og á Vesturlandi mundi og tala slíkra leiguliða verða harðla lítil; en á Nordurlandi og suður býr sjaldan einn leiguliði á enum stærri byggíngarjörðum, þeim er 20 hundruð eru að dýrleika og þaðanaf meiri". Með dæmi þessu ætlar Kammerráðið nú að hrinda breytíngar-uppástúngu Gríms amtmanns Jónssonar og Finns etazráðs Magnússonar í Hróarskeldu, en gætir þess ekki, að það kollvarpar um leið miklu framar hinu fyrra frumvarpi nefndarinnar. Og hvaðan er nú ástæða þessi tekin? einmidt úr brèfi enna "úngu" Íslendínga til þeirra Balthazar Kristensens og hinna íslenzku fulltrúa í Hróarskeldu, því

[1]) Frèttir bls. 96.

[2]) Í nýjum kollegialtíðindum stendur: "hefði kunnað að vera"; (sjá Frèttir, bls. 61).

áður enn þeir bendtu til þessa hafði enginn enna virðuligu embættismanna gætt þess, hversu gagnkunnugir sem þeir eru hag manna á sèrhverjum stað á landinu, að því er Herra kammerráðið hefir fullvissað um, og má þó svo að orði kveða, að fasteignar-kjörstofninn standi og falli með þessu. Í tilliti til Vestmannaeyja er þó frumvarp nefndarinnar ekki sízt gjört úti loptið: nefndin stíngur uppá að Vestmannaeyjar skuli hafa einn fulltrúa; Kristensen málafærslumaður sýnir ofaná, hvílíkur ójafnaður að sè á fólksfjölda í kjörþíngunum, einkum þegar litið er til eyja þessara; þeir hinir "úngu" Íslendíngar benda til þess, að Vestmannaeyjar sè ekki metnar til hundraðatals, að ekki nokkurr einn leiguliði þar gjaldi svo mikið að nemi 20 hundraða leigu, og fáir svo, að nemi 10 hundraða leigu í jörðu; en þessu svarar kansellíið á þá leið: að athugasemd þessi eigi sèr ekki stað, þar tilskipanin heimti einúngis 10 hundruð af jarðeigendum — eins og það sè ekki hverjum manni kunnugt, hvað þá heldur kansellíinu, að gjörvallar Vestmannaeyjar hafa frá alda öðli verið þjóðeign (konúngseign) og að þar því engin sjálfseign er, enda var þetta einnig tekið fram í brèfi því sem hèr er haft fyrir sjónum*). Það ræður því að líkindum, að í öllu þessu kjörþíngi verði ef til vill 2, eða í mesta lagi 3 menn, þeir er kjósa megi (að því leiti þeir eru húseigendur). Nú getur kammerráðið þess: "að enginn af Reykjavíkur-nefndarmönnum hafi verið kunnugur til hlýtar á Vestmannaeyjum". Þetta er kynlig afsökun, þareð kunnugt er að í nefndinni sátu amtmaðurinn í suðuramtinu, landfógetinn, biskupinn (er í margt ár hefir verið prófastur í Rángárvalla- og Vestmannaeyja-sýslu), forsetinn í landsyfirdóminum, er líka er yfirdómur fyrir Vestmannaeyjar, og 3 aðrir er vænta mætti að þekkt hafi svo mikið til hversu þar stóð á, að þeir vissi allt það sem á reið að vita, þar fyrir því mun þó mega

*) Brèf Íslendínga til Konúngsins, í "Viðbæti Frèttanna" bls. 225.

ráð gjöra, að ástundum komi í amtið skírslur nokkrar um þetta hið ókunna land *(terra incognita)*, þær er mætti gefa eina eður aðra bendíngu um, hvernig eigunum þar er varið. Ekki er ókynligri en önnur afsökun kammerráðsins, að heilsufar hans hafi verið bágborið meðan á fundinum stóð; oss virðist svo, sem afsökun þessi líkist næsta mikið "hinum úngu og óreyndu mönnum, sem hafa nýlokið fyrsta eða öðru lærdómsprófi", því þeim er stundum borið á brýn, að þeir kenni um veikindum sínum þegar þeir fá ekki svo góðan vitnisburð sem vera skyldi. Vèr leyfum oss einnig að geta þess, að Herra kammerráðið var ekki einn um hituna, þareð í nefndinni voru auk hans 9 menn aðrir, og má nærri geta hvort þeir hafi látið kammerráðið öldúngis hjálparlausan. Endurskoðun Jónsbókar var að vorri hyggju óviðkomandi starf, er hefði mátt verða útundan, ef því hefði ekki orðið lokið án þess að alþíngismálið hefði orðið á hakanum, og það því heldur, er svo mátti virðast, sem nokkurra mánaða hvíld mætti koma vel þessu máli, sem hefir verið á sífeldri hreifíng(!) um full 150 ár að undanförnu*). Sakir sjúkdóms og tímaleysis hefir kammerráðið því þrædt dönsku tilskipunina "svo nærri sem varð". Nú játar kammerráðið sjálfur, að ásigkomulag Danmerkur sè "í mörgu öldúngis frábrugðið" ásigkomulagi Íslands, og hefir hann þá með því berliga játt missmíði því er á hefir orðið, og það er: að gjörvöll undirstaða sú, er lagafrumvarp nefndarinnar er á byggt, sè skökk, og samsvari ekki högum Íslands; og þó er Herra Balthazar Kristensen hallmælt fyrir það að hann sýnir þetta, eins og væri hann ekki færr um að kveða upp það hið sama álit er sá er frumvarpið hefir samið lætur í ljósi, vegna þess hann hefir ekki verið sjálfu á Íslandi, og þekkir máske ekki eins marga hluti þar að nafninu til og þeir menn, "er lengi hafa gegnt embættum með atorku meðal alþýðu á Íslandi".

---

*) endurskoðan þessi er fyrst boðin með konúngsbrèfi 14. April 1688.

Þess er áður getið, að gyldar ástæður hafi verið til að vænta, að þeir menn er í nefndinni sátu, og almennt eru álitnir "bezt viti bornir af öllum mönnum á Íslandi" og þekkja "ástand og hagi" ennar íslenzku alþýðu, að, gyldar ástæður hafi verið, sögðum vèr, til þess að vænta, að þeir hefði verið búnir að gjöra sèr ljósa hugmynd um málið áður þeir komu á fund, og um það, hversu því mætti skipa á þann hátt er hentugastur yrði landinu og notabeztur; og þó von sú brigðist, hlaut sèrhverr þó að viðurkenna, að búið var að vinna í haginn með rítum þeim, er voru á prent útgengin þessu efni viðvíkjandi. Í ritgjörðum þessum er sumpart meir og sumpart minna drepið á aðalatriði þau, er næst liggja fyrir þegar semja skyldi ný alþíngislög, og í einu þeirra eru einkum tekin fram öll þau atriði er breytíngaruppástúngur voru gjörðar um í Hróarskeldu. Í engri þeirra hefir mönnum til hugar komið að gjöra fasteign að kjörstofni, heldur velja þær allar í einu hljóði tíundbæra fjármuni, er Herra kammerráðið hefir tekið fram í enu síðara frumvarpi sínu. Að vísu er það svo, að höfundarnir voru allir úngir menn að aldri, en þess hefði mátt vænta, að þeir menn, er á almenníngs kostnað eiga fund til þess að búa til kosníngarlög handa föðurlandi sínu, mundi sízt fara eptir aldri hlutaðeigandi rithöfunda eða því, þó þeir væri ekki í göfugum embættum, þó ekki væri vegna annars enn sakir tímans naumleika, er svo mörg áríðandi málefni lágu fyrir höndum til íhugunar; en allra undarligast virðist oss það, að sjálfir nefndarmenn hafa rètt á eptir sagt um kjörstofn þann, er tèðir rithöfundar hafa stúngið uppá, að hann einn sè rèttur, en nefndarinnar er aptur á mót kallaður, eins og satt er, óhentugur, óhafandi, og öðrum þvílíkum þokkaligum nöfnum.

Þess hefði ennfremur verið að vænta, að nefndin hefði ekki misskilið skýlaus orð konúngs í allrahæstum úrskurði 20. maím. 1840, heldur þýdt þau á þann hátt, er eðliligur

var og landinu til sannrar nytsemdar. Sá var tilgángur konúngsins, er ekki varð misskilinn, að hann ætlaði að gefa Íslandi slíka stiptan er lífga mætti þjóðarandann, og flytja nær hásætinu hænir þessarar ennar fjarlægu þjóðar óbreyttar eins og þær eru í raun og veru, og með því móti tengja band það fastara er sameinar þjóðina konúngsættinni. Tilgángi þessum varð ekki til hlýtar komið fram, ámeðan fulltrúar skyldi mæta fyrir hönd Íslands á þínginu í Hróarskeldu, því var nauðsyn að fulltrnaþíng kæmist á í landinu sjálfu; tilgánginum varð heldur ekki náð, nema því að eins að þíngið yrði svo lagað er samsvaraði landslagi og þjóðerni og öðru ásigkomulagi, því er svo mjög er einkenniligt, að það hefir rèttiliga verið fært til sem aðaláslæða fyrir því, að landið þyrfti að hafa fulltrúaþíng sèr. Heit konúngsins gefur nefndinni svo frjálsar hendur í tilliti til skipunar allrar á þínginu, að varla mun nokkrum hafa til hugar komið að óska, að þessu hefði verið öðruvísi fyrirkomið. Þar er látin í ljósi, með svo skírum orðum sem verða má, sú ætlan konúngsins: að Ísland eigi að hafa ráðgjafar-þíng sèr, en þíngið eigi að vera lagað sem mest verður eptir högum landsins og þjóðerni landsmanna, og eru teknar fram enar fornu þjóðstiptanir landsins, er svo mjög hafa víðfrægar orðið. Vèr fáum ekki skynjað, hversu nokkrum hefir getað til hugar komið að þýða orð úrskurðarins, þau: að hið íslenzka þíng skuli hafa "hin sömu störf á hendi" og fulltrúaþíng Dana, á þann veg, að það eigi að hafa ena sömu skipun, kosníngarlög o. s. f., og en dönsku þíng, og þó er gjörvallt frumvarp ennar íslenzku nefndar hyggt á þessum misskilníngi. Samt sem áður hefir engum til hugar komið að hera nefndinni það á hrýn, er Herra kammerráðið segir, að hún "hafi traðkað boði hátignarinnar með sjálfræði og þvermóðsku." — Það hefði verið ógurlig synd að segja! — Þvertámót hefir hitt verið sagt: að nefndin fyrir sakir þorleysis og vantrausts á sjalfri sèr hafi fylgt "bogin og

hjöguð" í fótspor annarra — að hún hafi orðið óhlýðin einmidt af því hún hafi verið ofhlýðin.

Það er þannig bert, að Reykiavíkur-nefndinni hefði naumast veitt af lengri umhugsunartíma, og það er einúngis að gjörast óhlýðin með ofmikilli hlýðni, að hún hefir hraðað sèr að leysa af hendi svo mikilvægt málefni á þann hátt, að nefndarmenn sjálfir hafa orðið að játa, að frumvarpið hafi öldúngis mistekizt þar sem mest reið á. Enginn mun geta neitað því, að af þessu leiðir að aðgjörðir nefndarinnar hafa verið því til "hnekkis, að þíngið, er ætlað var Íslandi, yrði skipað haganliga", og mun kammerráðið jafnvel geta fundið, að fulltrúi konúngs í Hróarskeldu hefir sjálfur optar enn einusinni látið sèr um munn fara slík orð sem þetta sanna, því opt var það, þá er harðna tók um ástæður, að hann kenndi um ásigkomulagi frumvarpsins og enni íslenzku nefnd, og lýsti því yfir, að ef frumvarpið hefði verið öðruvísi lagað (og það einmidt eins og þjóðin æsti) mundi stjórnin hafa verið fús á að veita því framgáng.

Herra kammerráðið hefir látið sèr mjög annt um að koma mönnum í skilníng um, að hann meti að litlu "álit hinna 27 Íslendínga", er þeir hafi látið í ljósi í hinu "alkunna" (o — því ekki "alræmda"?) brèfi, er þeir rituðu Herra Balthazar Kristensen, einkum vegna þess þeir sè svo úngir og óreyndir, og sumir þeirra sè að eins nýbúnir að ljúka af tveimum hinum fyrstu vísindaprófum, hann segir jafnvel, að einúngis einn þeirra sè sinnugri og framar málsmetandi enn hinir, og getur nú um leið í vonirnar, að sá hinn sami muni hafa ritað nafnlausa grein nokkra í "Kaupmannahafnarpóstinum", þar sem hið seinna frumvarp kammerráðsins er tekið fram yfir hið fyrra, eða nefndarinnar. Slíka ástæðu, sem ekki verður nefnd vægara nafni enn að hún sè fákænlig og fyrir laungu úrelt, ætlum vèr ekki að leggja oss niður við að reka, að minnsta kosti þángað til kammerráðið hefir gjört grein

fyrir, hve lengi hverr á að hafa verið stúdent til þess hann megi segja meiníngu sína augljósliga án þess honum sè hnjóðað; en þess má þó geta, að næstum helmíngur þeirra manna, er rituðu nöfn sín undir brèfið til Herra Kristensens, gæti, aldursins vegna, orðið alþíngismenn, en allir eru þeir svo gamlir, að jafnvel hinir ýngstu gæti með aðstoð kansellíisins fengið aldursleyfi til að láta vígjast til presta á Íslandi. Það hlýtur því að liggja öllum í augum uppi, að hversu lítils sem menn vildi meta atkvæði hvers eins þeirra sèrílagi, verður þó engum þeirra synjað þessi vits, að þeir geti haft fasta sannfæríngu um eins ljós atriði og þau eru, sem tekin eru fram í brèfinu; og þaraðauki getum vèr bætt því við, að það er auðsætt bæði á brèfi Íslendínga í vetur til konúngs, og líka á brèfi sextíu og þriggja manna úr Austfjörðum til Herra Kristensens, hversu skelfilega fáir þeir eru bæði hèr og á Íslandi, sem fella sig við uppástúngu Reykjavíkurnefndarinnar í þessum atriðum. Ef nú fara ætti eptir því, hvernig þjóðinni hefir geðjazt að báðum uppástúngunum, yrði álit "enna úngu" framar málsmetandi, og skuli líta á hitt, hverjir sýnt hafi meira fastræði híngað til, þá verður það ekki borið af kammerráðinu t. a. m., að hann hefir verið nokkuð hvikull í sèr; en hinir "úngu menn og óreyndu", er hann fyrirlítur, hafa með lofsverðu stöðuglyndi leitazt við að koma því fram er mest ríður á, án þess að gefa sig að smámunum, þó alþíngislögin gefi þar nóg tilefni til.

Hverr sem með athygli les ritgjörð Melsteðs, og þekkir af nokkurri reynslu til skipunar á fulltrúaþíngum, mun skjótt verða þess varr, að hún er fædd með talsverðum lýtum. Fyrst verðum vèr að álíta, að hann hafi með öllu skakka og ránga hugmynd um eðli og tilgáng þíngsins, og þarnæst virðist oss greinin öll lýsa ókunnugleik á fulltrúaþíngum, dauðum bókalærdómi, fjörlausri hugmynd um þíngið einsog það mundi verða í reyndinni,

og hræðslu og hugleysi við öll missmiði er á kynni að verða. Þessvegna þykir honum ríða svo feykiliga mikið á kosníngarlögunum, en gjörir lítið úr hinum atriðunum, er einmidt geta gjört þíngið vinsælt þjóðinni, aukið því þrótt og fjör, og lífgað með því þjóðarandann. Fyrir þessa sök þykist hann sjá einskonar stjórnfræðishapt þar sem kosníngarlögin eru, er stemmi svo stigu fyrir hreifíngaraflinu, að hverr geti skoðað það í krók og kríng, einsog húðarhest; þessvegna þykir honum svo vænt um reglu þá sem standi af enum tvöföldu kosníngum. Hann ætlar: að í landi því, þar sem lítill er fjárstofn, en jöfn mentun, óglapin skynsemi og óspilt hugarfar eru almennir kostir hjá öllum stéttum, muni eignir vera hin bezta ábyrgð fyrir því, að kosníuganefndir verði áreiðanligar og alþíngismenn vinsælir. Það er hryggiligt til að vita, að hann skuli nú vilja láta kosníngarlögin vera ennþá rígbundnari heldur enn í enu síðara frumvarpi sínu, er hann sendi kansellíinu; því nú er hann heldur á því, að eignir þær, er heimili kjörgengi, verði látnar vera ferfalt meiri enn til kosníngarréttar, með tvöföldum kosníngum, þar sem hann stakk þó áður uppá að kjörgengi væri með öllu óbundin. Af sömu rökum hefir hann svo mikinn viðbjóð á kosníngum þeim, er hinir "úngu" Íslendíngar, og leiguliðarnir úr Austfjörðum hafa stúngið uppá: að kjósa skuli í hverjum hrepp, eða þá smáum kjörþíngum, því hann er hræddur um (en hræðsla sú er raunar á engu bygð, ef nokkuð þykir til þíngsins koma á annað borð), að kosníngar muni þá verða svo á tvístri, að auðveldliga gæti svo farið, að einhverr sá yrði kjörinn til fulltrúa er níu tíundu hlutar kosníngarmanna vildi að væri ókosinn. Þegar bryddir á slíkum hugmyndum í lögum þeim, sem eiga að koma alþjóðligri stiptun á fót, þeirri er auka skal framfarir þjóðarinnar í stjórnarmálefnum, má óhætt ætla, að þar sè að eins bætt einu stjórnarráði við þau er þegar eru, nema því að eins, að þjóðin hafi

þann kjark í sèr og hugrekki, að engin stjórnarráð geti hnekkt framförum hennar.

Um það, sem Herra kammerráðið segir viðvíkjandi atriðum þeim, er menn greinir á um, ætlum vèr ekki að vera fjölorðir; bæði vegna þess, að það er að mestu leiti hið sama og konúngsfulltrúinn sagði á þínginu í Hróarskeldu, og lítur svo út, einsog Herra kammerráðinu hafi fallið það bezt í geð, — enda kynjar oss það ekki — og líka vegna þess, að það yrði oflángt að íhuga ástæður þær allar á ný, er hvorutveggju hafa fyrir sig borið.

Herra kammerráðið er einna fjölorðastur um breytíngaruppástúngu þeirra Gríms amtmanns Jónssonar og Finns etazráðs Magnússonar á þínginu í Hróarskeldu: að bæði embættismenn þeir, er búi á embættisjörðum, og leiguliðar allir, er búi á 20 hundraða jörðum, fengi kosníngarrètt og kjörgengi; og er hann að leitast við að koma mönnum í skilníng um, að breytíngaruppástúngan takmarki heldur lagafrumvarp ennar íslenzku nefndar, enn rýmki um það. Um þetta efni þykir oss hann hafa eydt orðum að óþörfu, einkum fyrst að breytíngaruppástúngan fèkk ekki framgáng, einsog kunnugt er, og höfundarnir hafa síðan stúngið uppa tíu hundruðum, án þess þó með berum orðum að skíra frá, hvort þeir ætlist til að eigandinn eða ábúandinn njóti kjörgengi þeirrar er þar á væri bygð. Það er og kunnugt, að Íslendíngar þeir er hèr voru fèllust ekki á uppástúngu þessa, því þótt þeir viðurkenndi að rýmkað væri með henni um kosníngarlögin, þótti þeim það ekki vera til hlýtar, og þeim virtist það ísjárvert, að leiguliðar skyldi skilmálalaust njóta rèttinda þeirra, er jarðeigendum voru áður veitt. Það virðist oss ekki heldur efunarmál, að rýmkun væri í breytíngunni frá því er áður var; því fyrst er það, að hún telur með alla embættismenn, er búa á embættisjörðum, en þær eru optastnær með enum beztu og stærstu, og flestar 20 hundruð að dýrleika, eða meira; og þegar jarðeigendur eiga að fá kosníngarrètt

og kjörgengi, þegar jörðin er undir 20 hundruðum, er kammerráðið hefir byggt á ymsar mótbárur í dæmum, á móti uppástúngunni, (þótt hann sè búinn rètt á undan að segja, að þetta sè ekki tilætlun hennar), mun það auðsætt, að ef farið væri að þessari uppástúngu, mundi bæði kosníngarmenn og kjörmenn verða lángtum fleiri heldurenn ef farið er eptir frumvarpi ennar íslenzku nefndar, og einkum mundi fjölga tala hinna mentuðu. Mótbára sú, sem kammerráðið hefir tekið eptir konúngsfulltrúanum: að byggíngartíminn sè svo stuttur, verður með öllu afllaus þegar farið er að íhuga hvernig ástatt er á Íslandi; því það er öllum kunnugt, að ábúðin á eignajörðum manna stendur einsopt alla æfi einsog ábúðin á þjóðjörðum, og einkum á veitíngagózum [1]). Það verður því eiganveginn "gengið að því vísu", að mistur sè ábúðarrètturinn þó árið sè liðið, og þó svo væri á einstaka stað[2]), mundi breytíngar þær á kjörskránum, er þarat

[1]) Á þesskonar jörðum mun vafalaust sjaldan vera gefin æfifesta, enda kæmi það ekki heldur sem bezt saman við konúngsbrèf 5tn Júní 1750, er heimilar prestsekkjum að kjósa hverja þá af kirkjujörðunum er hún vill, og áhorfslaust reka bóndann í burtu.

[2]) Þegar rituð eru byggíngarbrèf á Íslandi, er almennt kveðið svo að orði: að jörðin sè bygð eitt ár, "og það lengur sem okkur (lánardrottni og leiguliða) um semur, og leiguliðinn gjörir öll skyldnverk þau er lög bjóða honum." Í tilskipun 5ta Maí 1705 6 § (er talar um byggíngar bæði á bændajörðum og þjóðjörðum, sjá Amtm. Thorstenson *om det islandske Afgiftsvæsen* bls. 110. f. og Hugvekju Johnsens landsyfirrèttardómara bls. 111) er góð ábyrgð fyrir því, að abúðin sè varanlig, því þar er bannað að reka nokkurn bónda af ábúðarjörð sinni, meðan hann sitji hana einsog lög bjóði, og gjaldi eptir hana einsog goldið hafi verið frá aldn öðli. Optastnær fær eigandinn leiguliðann með góðu til að fara burtu af jörðinni, með því móti hann útvegi honum aptur aðra jörð, jafngóða; dæmi eru og til þess, að eigandinn hefir ekki náð jörðinni af leiguliðanum, þó honum hafi verið bygð hún að áralagi.

leiddi, ekki valda miklum óhægðum, þareð leiðrètta þarf þær á hverju ári á annað borð. Það mun því sèrhverjum virðast auðsætt, að kammerráðið hefir verið mikils til of aðfinníngasamur við þessa uppástúngu minna hluta nefndarinnar í Hróarskeldu.

En nærriþví enn frekligar rífur nú Herra kammerráðið niður kosníngarlög þau, er Reykjavíkurnefndin hefir samið, og kammerráðið sjálfur fremstur í flokki; telur hann nú kjörstofu nefndarinnar vera hinn óskynsamligasta og óhaganligasta sem verið geti (B. T. Nr. 152)*), og kosníngarlög hennar megi alls ekki nota, "**hvernig** sem reynt væri að laga þau í hendi", þareð af þeim muni leiða "óhægindi í ymsa staði þegar framkvæma skuli, er reynslan muni fyrst nógsamliga sýna hversu mikil verða muni og hve mjög þau muni trubla kosníngar", þareð lög þessi mundi eptir hans orðum "valda allskonar sundurliðun og lausúngu, án þess að lífs yrði vart eð innra eða limir líkamans næði að tengjast eð ytra". Á þennan hátt lýsir nú einhverr enn dugligasti úr íslenzku nefndinni kosníngarlögum þeim, er hann sjálfur og hinir aðrir "vitrustu menn", sem "eru töluvert hnignir á efra aldur", hafa samið, og hafa verið lögleidd einúngis vegna þess, að stjórnin hefir reidt sig á álit þessara manna, þráttfyrir bænarskrár Íslendínga þeirra sem hèr voru í Danmörku, sem á rökum voru hygðar, og gegn óskum hinnar íslenzku þjóðar. Kammerráðið fer jafnvel svo lángt, að ályktanin yrði að verða, eptir því sem honum segist frá röksemdum, að tvöfaldar kosníngar yrði að vera betri enn einfaldar hvernig sem á stæði. Allir þeir, sem mæla fram með tvöföldum kosníngum, verða stórmikils metandi: Höfundurinn sem ritað hefir um bók Munch-Ræders verður jafnvel merkiligastur allra danskra rithöfunda; Bardenfleth stiptamtmaður verður ógleymanligur; hann og Thorstenson amtmaður hafa báðir hið ljósasta yfirlit og hina

*) Sjá hèr að framan bls. 21.

djúpustu þekkíngu á háttalagi Íslands, — (ekki er honum samt kunnugt á Vestmannaeyjum!) — meistari Monrað kveður hann mæli með "miklum sannindum og afli̇kum"; ríthöfundurinn í Kaupmannahafnarpósti verður "sinnugur"(!) og orð hans meira metandi enn hinna annarra landa hans. Það má nærri geta að skírskotað er þaraðauki til rentukammersins. Það er eptirtektavert, að Herra Balthazar Kristensen einum er hvorki hælt, nè hans einusinni getið, og lèt hann þó þá meiníngu í ljósi í Hróarskeldu, að hann hèldi frumvarp kammerráðsins vera, ef til vildi, hið hentugasta fyrir Ísland. Það má nærri geta, að hinna annarra er minnzt býsna þurrliga, sem mælt hafa ámóti frumvarpi kammerráðsins. Aðferð þessi lýsir nokkrum einstrengíngskap, en þó keyrir framúr þegar farið er að taka tvöfaldar kosníngar framyfir allt, hversu sem ástatt er. Vart mun nokkurr sá vera, er fallizt hafi á frumvarp Melsteðs kammerráðs fyrir sakir ágætis hinna tvöföldu kosnínga í sjálfum sèr, heldur af því, að kjörstofn sá sem hann tók til var yfirgripsmeiri og eðliligri, og kom betur við, þareð hann veitti öllum eður nær því öllum búandi mönnum að eiga þátt í alþíngi. Vegna þess hafa menn tekið, og verða að taka hið síðara frumvarp kammerráðsins frammyfir hið fyrra eður frumvarp nefndarinnar. En þegar hann vill einskorða kjörgengi við fjáreign, sem er hartnær ferfalt meiri enn sú, sem hann hefir stúngið uppá að heimta eigi til kosníngarrèttar, þá * hlýtur maður að gánga úr skugga um, að kammerráðið hafi ekki uppgötvað yfirburði enna tvöföldu kosnínga með þjóðligum ástæðum; enda mun það og tvísýnt mjög, hvort uppástúnga kammerráðsins, þegar henni er breytt á þennan hátt, muni í raun rèttri verða betri enn nefndarinnar, einkum þegar þess er gáð, að eptir því sem kammerráðið segir sjálfur þá eru "margir hinir duglignstu og greindustu bændur, einkum þeir er búa við sjó", sem ekki eiga 10 hundruð lausafjár til tíundar, (en hitt er æði óvíst,

hvort þeir eiga 10 hundruð eður meira í fasteign að auki). Hin önnur ástæða, er mælti fram með síðari uppástúngu Melsteðs kammerráðs framar enn uppástúngu nefndarinnar, var hægð sú, sem leiddi af að kjörstofninn var bæði viðfeldinn og allyfirgripsmikill, og svo það, að frjáls kjörgengi fylgði, því þá mátti hafa tíundaskrár þær, sem samdar hafa verið á ári hverju um lánga hríð, fyrir kosníngaskrár, en allar nafnaskrár kjörgengra manna, allar sendíngar o. s. fr., yrði þá óþarfar, því kosníngarmönnum sjálfum væri ætlað að dæma um hæfiligleika þeirra er kjósa skyldi. Slíkt frelsi hlyti að kveikja lifanda fjör í allri þjóðinni, vekja enn inniligasta fögnuð, og ást á þínginu og þeim enum göfuga og ágæta höf íngja sem hefir veitt það þjóðinni. Enn var en þriðja ástæða, er mælti fram með frumvarpinu, og það var, að hinar örðugu ferðir kosníngamanna á einn kjörfund fyrir alla sýslu urðu miklu auðveldari, þegar þeir einir kosníngamenn, er bezt voru að sèr (eptir líkindum), áttu að koma saman til kosnínga. Það var og ekki ritböfundurinn í Kaupmannahafnarpóstinum einúngis, heldur einnig allflestir þeirra Íslendínga er hèr eru (í Kaupmannahöfn), sem tóku frumvarp kammerráðsins frammyfir nefndarinnar, og þessvegna reyndu þeir, sem von var, að halda því fram, ámeðan nokkur von var um að fá því fram komið, en úr því það tókst ekki, dirfðust þeir að bera fram uppástúngu þá, sem þeir álitu einfaldasta og þjóðligasta, þá er var laus við annmarka hinna tveggja og veitti jafnframt alla þá vissu, sem í raun og veru má verða fyrir því að kosníngar fari vel. En uppástúnga þessi er einmidt frumvarp kammerráðsins óbreytt, með einföldum kosníngum í stað hinna tvöföldu, þareð menn kváðust heldur kjósa einfaldar kosníngar, þegar þeim yrði við komið, og einkum á svo auðveldan hátt sem þar er stúngið uppá. Herra kammerráðið hefir ekki, svo teljanda sè, reynt til að mótmæla uppástúngu þessari í ritgjörð sinni, eða jafna henni saman við frumvarp sjálfs sín, heldur reynir hann

til að hengja hana á sama band og Reykjavíkurnefndarinnar (af því hann gætir einkis annars, enn að enar tvöföldu kosníngar sè beztar, hvernig sem ástatt er); það verður að eins hèrumbil ráðið af stöku sneiðum hvað honum þykir að því. Fyrst þykir honum ísjárvert, einsog vænta mátti, að stjórnin (að því er hann heldur) muni aldrei fallast á þvilíka uppástúngu. Það er nú kunnigra enn svo hèr í Danmörku, hversu þessari mótbáru er varið og hvað hún megi sèr, að þörf sè á að hrekja hana: að bera hana fyrir sig er sama og að bera uppá stjórnina tregðu sjálfs sín og gjöra konúnginn að kotúngi. Hið annað er honum þykir ísjárvert á meira skilt við málið: Herra kammerráðið segir á einum stað: að "hinir 27 Íslendingar" æski þess, að einföldum kosníngum, þeim er þeir mæla með, yrði farið fram "með þeim hætti er verst gengdi, og varla mátti finna annan verri" (með því að kjósa í hverjum hreppi eða smáum kjörsveitum), og leiðir hann þau ein rök til þess, að kosníngar muni dreifast fjarskaliga. En það er fullgyld ástæða til skiptíngarinnar, að sýslurnar eru svo miklar um sig, að torvelt verður, eða jafnvel beinlínis ófært fyrir marga, að sækja kosníngaþíng á einum stað í sýslunni þegar kjósa skal; en það lítur svo út, sem ekki þurfi mjög að óttast að kosníngar dreifist, þegar gætt er að hversu kammerráðið sjálfur lýsir mentun þjóðarinnar, og er það víst að hann ýkir hana ekki. Hann segir svo frá: að í serhverjum hrepp, er milli 20 og 30 búendur sè í, sè optast nær t. a. m. tveir, þrír, fjórir bændur, sem beri af öðrum "í sinnugleik, vitsmunum og mentun", og heldur hann að hinir muni kjósa þá til kjörmanna þegar kosníngar sè tvöfaldar. En sè það nú álitið víst, að allir hinir, bændurnir, sem annars eru miður mentaðir, hafi samt svo mikla mentun, að þeir geti og vilji kjósa hina beztu menn úr sveit sinni til kjörmanna, og sè þaraðauk gjört ráð fyrir, að kjörmenn þessir sè aptur færir um að kjósa góða alþíngismenn, þá segir hitt sig beinlínis sjálft, að hinir minniháttar muni

fara eptir ráðum og bendíngum enna betri, ef þeir treysta sèr ekki sjálfir til að þekkja þann úr sem bezt sè fallinn til fulltrúa. Þetta dæmi ber svo ljósan vott um skynsemi þjóðarinnar og vandað hugarfar hennar, að það hlýtur að hrinda burt öllum kvíða fyrir hættum þeim, er leiða kynni af miklu kosníngafrelsi, og það því framar, sem sèrhver einræðislig takmörkun, sem gagnstæð er sannfæríng þjóðarinnar, leiðir meira illt af sèr á Islandi enn á flestum öðrum löndum. Vèr verðum að fallast að öllu leiti á það, sem Austfirðingar láta í ljósi í brèfi sínu til Herra Balthazars Kristensens, að einfaldar kosníngar sè miklu betur fallnar til að vekja þjóðarandann enn enar tvöföldu, enda hefir og kammerráðið játað þetta sjálfur á einum stað í frumvarpi því, er hann sendi kansellíinu. Hitt hefir kammerráðið alls ekki minnzt á, að kviknað gæti rígur milli kosníngarmanna og kjörmanna, þegar kosníngar eru tvöfaldar, ef óhappaliga tekst að kjósa; ekki getur hann heldur þess, að svo mætti við bera, að stöku menn gæti með ýmsu móti haft áhrifur á enar fámennari kjörnefndir; þetta er þó athugavert, og hljóta menn að játa, að miklu hættara sè við þessu þegar kosníngar eru tvöfaldar, heldurenn þegar þær eru einfaldar.

Herra kammerráðið er "algjörliga sannfærður um", að engin rödd á Íslandi, "sú er að nokkru sè merk eða metandi", muni fallast á breytíngaratkvæði Herra Balthazars Kristensens um að fjölga tölu alþíngismanna svo, að þeir verði 48. Vèr vitum nú reyndar ekki, hvort Herra kammerráðið kann að leggja þenna dóm á alla þá, sem fallizt hafa eða fallast munu á breytíngar-atkvæðið, til þess að láta ekki á sig gánga, því ef svo væri gæti svo farið, að rödd hans ein yrði "að nokkru merk eða metandi" á Íslandi. Það er kunnugt, að öllum, hverjum og einum, þeim er híngaðtil hafa látið í ljósi álit sitt um þetta mál (nema ef undan skyldi taka þá, er tóku þátt í bænarkránni árið 1837, en þeir gátu ekki talað sig saman, og hafa því ritað

nöfu sín undir einúngis til að biðja um að þíng yrði sett á landinu sjálfu) hefir komið saman um, að æskiligra væri, að alþíngismenn væri fleiri enn nefndin í Reykjavík hefir stúngið upp á, og hefir enginn tekið færri til enn 32, auk þeirra sem konúngur sjálfur áskildi sèr að kjósa. Hin helzta, og hjá einstökum mönnum (t. a. m. Grími amtmanni Jónssyni) einasta mótbáran gegn breytíngaratkvæðinu kemur hvergi við málið sjálft, og leiguliðarnir úr Austfjörðum hafa ekki einusinni virt sig til að geta hennar, en það var kostnaðurinn. Kammerráðið má því sjálfur eiga reikníng þann yfir kostnaðaraukann, er hann hefir bygt "á áreiðanligum reikníngum", enda sýnir og brèf Austfirðínga ljósliga, að nokkuð má mínka hann, og er þar einnig bendt til, að uppí þenna kostnað megi láta gánga þíngfararkaup hið forna, sem upphafliga var ætlað til skotpeníngs handa lögrèttumönnum, og ávallt haft til þess meðan alþíng stóð, en síðan það var lagt niður hefir þíngfararkaupið runnið í sjóð sýslumanna endurgjaldslaust, þó þeir sè annars vel haldnir. Hinar ástæðurnar, sem teknar eru upp eptir konúngsfulltrúa, eru ekki heldur þúngar á voginni, því þótt Ísland hefði fjölmennara fulltrúaþíng enn nokkurt annað land í heiminum, og jafnvel ferfalt (eða þó væri áttfalt) fjölmennara enn Danmörk, þá varðar það mál engan nema Ísland, en Danmörk verður ekki af því fyrir neinum halla, heldur enn Eydanir verða fyrir halla þó Jótar hafi fjölmennara þíng að tiltölu enn þeir, þareð atkvæðin eru ekki lögð saman; en hitt mun sèrhverr sá játa, sem vit hefir á að meta hvers slík þjóðstiptan er verð, að Ísland þarfnast sterkliga fjölmennara þíngs, ef það á að verða annað enn stjórnarnefnd, sem ekki sè nema landinu til þýngsla, en hafi hvorki álit nè virðíngu hjá neinum. Þar sem getið er til, að þegar þíngmönnum verði fjölgað muni fjölga meira enn að rèttri tiltölu tala þeirra er ómentaðir eru, þá væri þetta því að eins líkligt, ef menn gjörði ráð fyrir, að ekki sè nema hèrumbil 26 menn

á öllu landinu, sem hæfir sè til alþíngismanna, og þarnæst, að menn gæti einmidt hitt á þessa menn þegar kjósa skyldi, en það er fávísligt að gjöra ráð fyrir slíku, enda sýnir og reynslan hvervetna, að það er sjaldgæft að hitta gáfumenn, þá er nokkuð kveður að, nema þar sem þíng eru nokkurnvegin fjölmenn. Herra kammerráðið þykist leiða rök til, að ástæða sú, er tekin er af tölu þíngmanna á alþíngi enu forna, sè "rammskökk og engu nýt", þareð tala alþíngismanna, þeirra er "kjörnir voru og til ráðgjafar ætlaðir", hafi verið 96 meðan þjóðstjórnin stóð, en seinna 84. En rakaleiðsla þessi hefir samt mjög mistekizt, því það er eins víst og nokkurr hlutur má verða, að frá því alþíng var stofnað og þángaðtil hèrumbil 1264 (en sjálfsagt er að helzt er litið til þessa tímabils) voru hinir regluligu lögrèttumenn einmidt 48 (fernar tylftir manna) auk lögsögumanns*). Það virðist og svo, sem kammerráðið sjálfur hafi vitað þetta, og hafi hann þessvegna reynt að bjarga sèr með því að bæta við orðinu "ráðgjafar", en þá hefir honum viljað svo undarliga til, að hann hefir gleymt helmíngnum af "ráðgjöfum" þessum. Eptir því sem Gragás skipar fyrir skyldi pallar þrír vera umhverfis lögrèttuna, svo víðir, að rúmliga megi sitja á hverjum þeirra fernar tylftir manna; á miðpalli var ætlað sæti þeim fernum tylftum manna er lögrèttusetu áttu, og þaraðauki biskupum og lögsögumanni. Sèrhverr þessara 48 manna, sem lögrèttusetu áttu á þann hátt sem nú var sagt, skyldi skipa tveim mönnum í lögrèttu til umráða með sèr í atkvæðamálum, og var ráðgjöfum þessum skipað til sætis á fremsta palli og aptasta, öðrum fyrir en öðrum á bak þess er kosið hafði. Þessir ráðanautar hafa nú ekki verið taldir, en þareð kammerráðið telur þá með, þá hefði hann átt að nefna 144 í stað 96. Og vart mun því neitað verða, að 144 manna þíng muni ávinna sèr virðíng og lotníng þjóðarinnar nokkurn-

*) Grágás í lögrèttuþætti.

veginn öðruvísi enn 20—26 manna þíng, er það nú þegar fjórði hluti þingmanna hefir ekki verið kosinn af þjóðinni. Töluna á seinni öldum hefir kammerráðið fært rètt til eptir **Jónsbók**, en hann hefir ekki orðið varr við tilskipun er Hákon konúngur Magnússon skömmu siðar gaf út, og einskorðar einmidt töluna við 48. Að öðru leiti hafa fáir með neinum hætti hángið í tölunni í sjálfri sèr, og einkum hefir Herra Kristensen sèrílagi tekið ástæður sínar af fólksfjöldanum, á þann hátt, að hverjum manni hlýtur að þykja það gjört svo skarpliga og ljósliga sem auðið var. Ekki hafa menn heldur staðið á því, að fjöldinn **einn** gæti útvegað alþíngi álit hjá stjórninni, en það finnst oss þó liggja í augum uppi, að flestum mundi þykja meira koma til þegar t. a. m. 42 væri ámóti 6, heldurenn þegar 20 yrði ámóti 6 eða þvíumlíkt. Það er einnig mikils athuga vert, að varla geta menn vonast til að píngið verði i hvert skipti fullskipað, og þegar t. a. m. ekki gæti sótt þíng nema þrír hlutar hinna 26 manna, þá yrði ekki úr því annað enn nefnd, en apturámóti er 36 manna samkoma allvirðuligt þing. Herra kammerráðið hefir farið að bera sumum á brýn útúr tölu þessari, að þeir sè eintrjáníngsliga hneigðir að því sem fornt er, og honum þykir úrelt; en ef álykta skal frá því, hversu nefndin hin íslenzka hefir lýst hinu eldra þíngi, og frá orðum kammerráðsins *í* þætti þeim sem hèr er umrædt, þá hljótum vèr að neita honum að öllu um, að hann eigi rètt á að bera slíka sök á neinn mann, þareð sjáanligt er að bæði hann og meiri hluti nefndarinnar, að því er ráða má, er eintrjáníngsliga hneigður að öllu því sem útlent er, og er ekki einusinni færr um að lýsa svo enni aldafornu þjóðstiptun, sem ávallt er hverjum Íslendíngi hjartakær, hversu sem missmíði hennar voru, að á lýsíngunni verði sèð að honum hafi verið alþing kært, eða að minnsta kosti að hann minntist þess með virðíngu þeirri sem það á skilda. Það er ekki kyn þó menn hafi um lángan tíma fundið til óheilla þeirra, sem Íslandi öllu, bæði

landstjórn þess og framför, stendur af því, að stjórnin er óþjóðlig, ókunnug öllu ásigkomulagi og háttum lands og lýðs, þareð ekki er einusinni sèð um, að íslenzkir lögfræðíngar geti aflað sèr á háskólanum nokkurrar þekkíngar á enum frábrugðnu lögum landsins og stjórnarskipun, nema hvað þeir geta sjálfir tekið sèr fram með ástundun og eptirtekt, enda þó þeim sè framar öðrum ætlað að standa í enum veraldligu embættum á landinu. Verður annmarki þessi því tilfinnanligri, sem menn verða varari við, eptir því sem menn verða kunnugri hinum fornu stjórnarathöfnum, að þær hafa verið í mörgum greinum hentugri og átt betur við enn hinar síðari, sem teknar eru eptir öðru landi, þar sem ásigkomulagið er „að öllu frábrugðið" því sem á Íslandi er, en þetta hefir leidt með sèr fjölda dauðra lagagreina, ollað lagarugli og óþarfa umstángi, en síðan bætist þar ofaná, að lög þessi eru boðin þjóðinni á máli því, sem flestum er óaðgengiligt og ókunnugt — þau eru sumsè birt og haldin á danska túngu.

Hvað málið snertir, þá ætlum vèr ekki að eyða þar orðum að, því stjórnin hefir nú sjálf látið sèr skiljast, hversu málblendíngurinn særi þjóðtilfinníngu Íslendínga*) og spilli sjálfu þínginu; en á hinu þarf engan að furða, þó hún hafi áskilið sèr að mega hafna hag sjálfrar sín, þegar svo ber undir. Það finnst oss ekki kynligt, þó Herra kammerráðið finni ekki hið minnsta til þessa, eða þó hann álíti hinn danska konúngsfulltrúa einsog nokkurskonar skólameistara, sem innrætt geti þíngmönnum grundvallarreglur stjórnarinnar frá enu "æðra sjónsvæði", sem hann standi á; öllu framar sambýður þetta ágætliga hinum óþjóðliga skoðunarmáta hans á máli þessu. Vèr segjum

*) það er eptirtektavert að sjá, hversu jafn-nafntogaður lögfræðíngur og Örsteð er reynir til að færa rök til þess, að Íslendíngar hafi engin þjóðarrèttindi, af því þeir sè svo — fáir. Ójá — satt er það að þjóðverjar í Slesvík eru nokkrum þúsundum fleiri.

einúngis: að það er að öllu rángt að segja, að ætlast megi til, að "allur þorri, ef ei hverr og einn", þeirra manna sem kosnir mundi verða til alþíngismanna, geti einusinni „nokkurnveginn til fullnustu náð efninu" (einsog Herra kammerráðið kemst að orði heldur enn ekki lítilátliga) þegar mælt er á danska túngu.

Viðvíkjandi því, hvort þíngið eigi að halda í heyranda hljóði, mundi þau orð kammerráðsins nægiliga lýsa áliti hans, að því er oss virðist, er hann segir að aðgjörðir þíngmanna geti "ekki orðið **í minnsta máta**" (þau eru hans orð) kunnugri um allt land fyrir því, þó þíngstofan sè látin öllum opin, og segir hann, að þá muni ekki verða aðrir til að hlýða á aðgjörðir þíngmanna heldurenn iðjuleysíngjar úr Reykjavík og þaðan úr nágrenninu. Báðar þessar mótbárur eru þannig lagaðar, að ekki þarf annað enn mæla þær fram til þess þær reki sig sjálfar; samt eru þetta einu ástæðurnar, sem Herra kammerráðið hefir til að burtskúfa því sem einmitt á að kveikja lífsandann, bæði í þínginu og þjóðinni, og sem hið forna alþíng misti aldrei um 900 ára nærfellt, eigi síður undir fullkomnu einveldi enn hinni frjálsustu þjóðstjórn. Það er líka svo notagott(!) sem Herra kammerráðið ætlar að veita í staðinn, því menn eiga von á að fá stutt og ófullkomið ágrip af skírslu um það sem fram fer, og það að nokkrum árum liðnum ef til vill, eigi menn að spá eptir því, hvenær aðgjörðir Reykjavíkur nefndarinnar voru birtar.

Vèr vitum eigi hvort Herra kammerráð Melsteð hefir ásett sèr, að halda áfram götu þá er hann hefir nú snúið á, og verja þannig gáfum sínum og þekkíngu til að spyrna á móti því, að skipun alþíngis verið betri og þjóðligri; en vèr óttumst ekki þó svo væri, og það ekki þó valdið geti veitt tillögum hans sigur um stundarsakir og bælt niður sannleikann.

Íslendíngr.

---

# III.

## NOKKRAR ATHUGASEMDIR VIÐ SVAR EINS "ÍSLENDÍNGERS" UPPÁ ATHUGASEMDIR MELSTEÐS KAMMERRÁÐS UM ALÞÍNGISMÁLIÐ.

Í Nr. 1280—1282 af "Föðurlandinu" í ár hefir "Íslendínger" nokkurr komið með svar til athugasemda þeirra, er Melsteð kammerráð hafði gjört við alþíngismálið, og prentaðar voru í Berlíngatíðindum Nr. 150—153. Þó að svar þetta muni varla megna að villa sjónir fyrir neinum, sem leggur nokkurn hug á málið, þó lítt kunnugur væri ásigkomulagi Íslands, þá virðist mèr þó ekki *óþarft*, með því málefnið er mikilvægt, ekki einúngis fyrir Ísland heldur einnig alla Danmörku, að leiða mönnum fyrir sjónir röksemdir og ráðbragð Íslendíngs þessa í stöku greinum, þó ekki væri til annars enn til að benda á, með hvílíku ránglæti, að eg ekki segi gapaskap, hann hefir fundið að aðgjörðum Melsteðs kammerráðs í þessu máli, og er það þess áfellisverðara, sem hann vissi að M. sjálfur mundi ekki að líkindum geta komið svörum fyrir sig fyrr enn svo sem að ári liðnu.

"Íslendínger" þessi hyrjar með því, að hann kveður upp dóm yfir aðgjörðir Reykjavíkur-nefndarinnar allar saman, og lýtur hann að því, að nefndarmenn hafi ekki getað gjört sèr ljósa og fasta hugmynd um stöðu landsins og ásigkomulag, þegar á allt skyldi líta, þeir hafi ekki þekkt landsins sönnu nauðsynjar, eða ekki gefið þeim gaum, eða ekki þorað að bera þær fram, og þessvegna sè einmidt allra mikilvægustu málefnin: skólamálið, spítalamálið og alþíngismálið, lakast leyst af hendi. Í. hefir trauðliga íhugað til fullnustu, hversu þúngar ákærur þær eru sem hann kýngir yfir nefndarmenn. Sèrhverr óhlutdrægur

maður varð að álita embættismenn þá, sem kvaddir voru í nefndina, eptir stöðu þeirra og framkvæmdum að undanförnu, færari enn aðra Íslendínga til að skynja, hversu sambandi því er háttað sem Ísland stendur í við Danmörku, til að þekkja Íslands lög og stjórnarháttu í smáu og stóru, kosti þess og annmarka, siðferðisháttu, mentun og efnahag landsmanna; honum verður því það fyrir, að ákæra þá um afskiptaleysi á hagsmunum landsins, eða þorleysi að segja álit sitt. Fyrir þessum æruleysis dómi segir hann megi færa órækar ástæður, en hann færir einúngis til í þessu skyni meðferð nefndarinnar á þeim þrem málefnum sem áður eru talin. Viðvíkjandi skólamálinu tekur hann það einkum fram, að nefndin hafi byggt á því, að hún hafi gjört ráð fyrir að skólinn ætti að eins hèrumbil 50 þúsundir dala, þar sem það væri þó síðar sannað, að eignir hans mundi verða hartnær þrefalt meiri, en spítalamálið segir hann þeir hafi skoðað svo eintrjáníngsliga og lítilmannliga, að ekki sè fyrir að sjá hvenær umbót verði gjörð á læknasetníngum og spítölunum. Líti maður nú á skólamálið, þá er nokkurnveginn víst að hann hefir valið þar dæmi mjög óheppiliga, því það er ljós vottur þess, að mál þetta hafi verið nokkurnveginn fullskoðað frá öllum hliðum, að hvergi hefir ennþá verið færð til nein ný ástæða svo á hafi borið, hvorki með nè móti flutníngi skólans frá Bessastöðum til Reykjavíkur, og það var eglíliga eina atriðið sem komið gat til álita nefndarinnar í þessu máli, en annað ekki, og til að rannsaka það, sem ritað hafði verið um fjárhag skólans einkanliga, voru þeim alls engin skírteini fengin í hendur; mun og hverr maður sjá, sem nokkurt skyn ber á hvernig mál fara fram á slíkum fundum, að slíkt starf var ekki fyrir aðra eins samkomu og þá í Reykjavík, sem hafði svo stuttan tíma. Þess skal og geta í stuttu máli, að sönnun sú, sem á að vera í "Nýjum Fèlagsritum 1842" fyrir því, að skólasjóðurinn sè þrefaldur við það sem embættismennirnir hafa talið, lítur hýsna

tortryggilega út, og mundi, því miður, varla standast nákvæma rannsókn.

Það mundi vera eins mikið ránglæti að ásaka nefndarmenn um, að þeir hafi sýnt eintrjáníngskap og lítilmennsku í meðferð sinni á spítalamálinu. Það má vera að Í. hafi ekki vit á, að þegar eitthvað hefir verið stofnsett í allra bezta tilgángi, og staðið um heilar aldir og unnið mikið gagn, þá verður því ekki steypt um koll án þess að nein mótmæli komi fram því til öptrunar, þó tilgángur þeirra sè góður sem kollsteypa vilja; en hann hefði þó átt að kynna sèr, áður enn hann felldi slíkan dóm, að sjálfur landlæknirinn á Íslandi, sem bæði er rèttsýnn og vel að sèr, hefir álitið mjög ísjárvert að verja eignum þeim, sem holdsveikra spítalar eiga, til lækningaþarfa á landinu, og má þó nærri geta að honum muni annt um að lækníngastjórn á landinu sè skipað svo haganliga sem unnt er. Það er því engin furða, þó sumum af nefndarmönnum hafi litizt sama um þetta mál, og eiga þeir því enganveginn skilið að þeir sè ásakaðir um eintrjáníngskap, þó málalokin kunni að falla illa þeim, er öðruvísi litu á málið.

Vèr snúum nú að því sem Í. segir um alþíngismálið, og einkanliga að ákærum hans við M. kammerráð, fyrir þann þátt sem hann hefir átt í meðferð þess í nefndinni. Þar sem Í. segir, að mál þetta hafi optar enn einusinni verið sent enum æðri embættismönnum á Íslandi til að segja álit um það, þá er þetta ósannindi; því þó reyndar leitað hafi verið álits manna nokkrum sinnum um það, á hvern hátt Ísland gæti tekið þátt í þíngum Dana, hefir embættismönnunum aldrei verið boðið að íhuga hversu haga skyldi þíngi á Íslandi sèrílagi, fyrr enn eptir það konúngur var búinn að gefa út allrahæstan úrskurð sinn 20 Maí 1840, nema ef undan skyldi taka, að bænarskrá úr Sunnlendíngafjórðúngi um þetta efni var send kansellíinu frá amtmanninum í suðurumdæminu 1837. Eins hugsunarlaust er

lìkt, að ætlast til þess af einstökum nefndarmönnum, að þeir skyldi hverr um sig hafa gagnhugsað svo málið og grunngengið til fullnustu áður enn þeir komu á fund í Reykjavík 1841, að það hefði verið þeim auðvelt að semja kosníngarlögin þegar á fund var komið, því naumliga mundi nokkurr hafa getað sèð til fullnustu kost og löst á öllum þeim grundvallarreglum sem leggja mátti fyrir kosníngum, nema hann sæi hvernig þær gæfist þegar þær væri reyndar útí hörgul, en slíkt hefði að líkindum orðið óvinnanda verk hverjum einum, einkum þegar menn íhuga, að allir nefndarmenn hafa embætti á hendi, og sumir margbrotin störf, sem þeir mega ekki leggja undir höfuð. Nefndarmenn urðu því líkliga fyrst á fundinum að koma sèr saman um aðalatriði kosníngarlaga þeirra, er þeir vildu ráða til, einkum um kjörkostina, en selja síðan einum manni eða fáeinum í hendur að semja lagafrumvarpið sjálft. Það *eitt* hefði reyndar mátt með sanngirni heimta af fundarmönnum, að þeir hefði búið sig undir þessa samvinnu á þann hátt, að hverr og einn hefði leitazt við fyrirfram að gjöra sèr svo skíra hugmynd, sem auðið var, um aðalatriði málsins, og kynnt sèr rit þau, er hann hèlt mundi geta orðið sèr til stuðníngs til að ná fullri og fastri meiníngu um málið. Það mun nokkurnveginn *óhætt* að skjóta því undir álit hvers *óhlutdrægs* manns, hvort eða að hve miklu leiti sjá megi á aðgjörðum Ms í þessu máli, að hann hafi trassað að búa sig undir starf sitt á þennan hátt, og mun ekki þurfa að óttast að svarið gángi honum á móti. Hitt getur maður jafnframt fúsliga viðurkennt, að nefndarmenn, og þar á meðal M., hafi ekki hitt það er Íslandi hagaði bezt, þá er þeir völdu grundvallarreglur fyrir kosníngarlögunum; en þess vil eg geta, að hefði nefndarmenn valið sèr aðrar grundvallarreglur, sem lengra hefði vikið frá kosníngarlögum Dana, þá hefði málinu að líkindum ekki orðið lokið á fundinum 1841, og orðið að geyma það til fundarins 1843, en þá hefði

tafizt fyrir sjálfu þínginu um fleiri enn eitt ár, og mundi það varla hafa verið að vilja ens tignaða gjafara, nè að ósk Ís eða nokkurs Íslendíngs. Sè nú þannig rètt á allt litið, er það nokkurnveginn víst að menn verða að játa, að M. hefir gjört það sem í hans valdi stóð, til þess að málinu yrði sem haganligast fyrir komið, því þegar kosníngarlögin voru alsamin og hann sá að grundvallarregla þeirra mundi engu sinni verða Íslandi haganlig, þá benti hann, hið hraðasta honum var auðið, á aðra skipun á þínginu, er betur ætti við ásigkomulag landsins.

Í "athugasemdum" sínum um alþíngismálið hefir M. að nokkru leiti leitazt við að sýna, að breytíngar-atkvæði þau og uppástúngur, sem bornar voru upp í Hróarskeldu, þegar málið var rædt þar, væri óhaganligar, og hefir hann þá byggt á því, að ekki mundi hægt að bæta til muna kosníngarlög nefndarinnar, meðan menn hèldi sèr fast við enar einföldu kosníngar; að öðru leiti hefir hann tekið það nákvæmligar fram, hversu að tvöfaldar kosníngar hagaði Íslandi betur, því sjálf kosníngar-aðferðin veitti mönnum þá vissu um, að kosníngar mundi heppnast vel, og þeirri vissu mætti stjórnin ekki sleppa, ef hún vildi gæta þess sem skynsamligt er, en þegar einfaldar kosníngar væri við hafðar, væri það kjörstofninn einn sem ætti að veita slíka vissu. Það er auðsèð af þessu, að orð hans koma hèr öldúngis saman við það, er hann gjörði á fundinum 1841 og eptir hann. Þó hefir Í. reynt til að sýna ósamkvæmni hans við sjálfan sig, með því að henda eptir honum einstök orðatiltæki, þarsem hann finni að verki sjálfs sín, og tekur Í. þá fram um leið "hið lofsverða stöðuglyndi" Íslendinga í Kaupmannahöfn, að þeir hafi ávallt fylgt fram sama kjörstofni, enda þó hann viðurkenni sjálfur, að þeir hafi reynt að halda fram enni síðari uppástúngu kammerráðsins, meðan nokkur von var um að fá henni fram komið, en þegar það vildi ekki heppnast, hafi þeir komið fram með aðra uppástúngu, það er að skilja

önnur kosníngalög, sem slepptu jafnvel aptur því sem hinar tvöföldu kosníngar hafa til að bera til að tryggja völin, og hefði þeir því þurft lítið vit til að sjá það fyrir, að enn ómöguligra mundi verða að "koma fram" slíkum lögum.

Þáttur þessi mundi verða lángorðari enn honum var ætlað, ef ætti að elta Í. fet fyrir fet í röksemdaleiðslum hans, sem eru bæði nokkuð á hlaupum og grunnhyggiligar, og hefði þó með því mátt enn betur sýna, að hann hefir ekki verið færr um að gjöra sèr skíra hugmynd um nokkurt atriði í öllu þessu máli, og allra sízt um það, hversu undirstöðnr kosnínganna fara að breyta ákvörðununum kosníngarlaganna eptir sèr. Það verður því að nægja að sýna á nokkrum einum heldri atriðum hversu skakkt það er og ástæðulaust sem hann fer með.

Í málinu um þíngmannafjöldann hefir Í. sýnt lærdóm sinn á því, að grafa upp hvað margir löggjafar og ráðgjafar hafi fyrrum verið á alþíngi, þykir honum, að ef ekki verði á alþíngi, því sem nú á að stofna, nema 26 þíngmenn, og gæti ekki nema þrír hlutar þeirra komið til þíngsins, yrði slíkt þíng ekki annað enn nefnd; hann segir og að flestum muni þykja meira vert um atkvæði 42 á móti 6, enn þó 20 væri á móti 6 eða þvíumlíkt. Hvort sem nú alþíngismenn í fornöld hafa verið fleiri eða færri, þá er það óyggjandi sannleikur, að meðan en forna lögun var á alþíngi, svo að bæði löggjafarvaldið og hið æðsta dómsvald var í þess höndum, á því landi, hvar ofureflið átti mikinn þátt í landstjórninni, þá var þess von að mönnum þætti bæði skynsamligt og nauðsynligt að laga svo þíngið, að það byði af sèr ótta, og gæti komið þeirri sannfæríng inn hjá þjóðinni, að því sem auðið var, að ekki mundi hlýta að veita mótstöðu dómum þeirra og ályktunum. Við ráðgjafarþíng er apturámóti allt öðru máli að skipta. Þar kemur allt undir því, þegar um þíngmannafjöldann er að ræða, að allra hagsmunum sè svo kröptugliga haldið fram, að menn megi vera vissir um,

að sèrhvers máli sè talað svo vel sem vera ber, og geti stjórnin valið síðan það sem henni finnst haganligast og á beztum rökum byggt. Í þeim löndum, þar sem viðskiptum og hagsmunum manna er mjög misjafnt háttað, er auðsèð að nauðsyn er á að fulltrúum sè fjölgað, enn apturámóti þarf að eins fárra fulltrúa þar sem sjaldan ber við að hagsmunir manna komi í bága. Gæti menn nú að Íslandi, þá mun varla vera sjaldgæfara á nokkru landi að hagsmunir manna fari í bága enn einmitt þar. Þegar íslenzkir og danskir verzlunarmenn eru frá skildir, sem bæði eru fáir, og lítinn eða engan þátt geta vonast til að fá í þínginu, eru landsmenn tómir almúgamenn, sem lifa á jarðirkju og fiskiveiðum, þó skipta megi þeim í minni flokka, t. a. m. sjálfseignarbændur og landsetabændur, hjáleigumenn og þurrabúðarmenn o. s. frv., eða þá embættismenn, en stöðu þeirra og atvinnuveg er samt einnig þannveg háttað, að þeir eru venzlaðri almúgastèttinni enn annarstaðar er vant að vera. Þegar ákveða skal um þíngmannafjölda á Íslandi verður því nokkurnveginn víst, að tveggja grundvallaratriða þarf einkum að gæta: fyrst, að maður sè til svara frá sèrhverjum hluta lands, svo ókunnugleiki á heraða háttum verði ekki til tálmunar, jafnvel þó lítið kveði reyndar að mismun þeim, sem er á þörfum eða hagsmunum heraðanna, hins og annars, að menn megi eiga von á að þeir sem vitrastir og framkvæmdarsamastir eru á landinu komist í þíngið; en hvernig þetta tvennt muni takast, þegar þíngmenn eru látnir vera 26, einsog nú er, eru þeir einir færir um að dæma sem nákunnugir eru bæði heruðum og einstökum mönnum, og mun í því efni jákvæði M[e] mega líkliga eins mikið og neikvæði I[e]; svo munu og allir þeir, sem skrifuðu undir bænarskrána 1837 — því það var nokkurnvegin víst, að meðal þeirra var meiri hluti enna vitrustu manna á landinu — og Reykjavíkur-nefndin, geta staðið vel jafnfætis þessum 27 Kaupmannahafnar-Íslendíngum, enum austfirzku leiguliðum, eða

hverjum sem hefir samið bréf þeirra, og Dönum þeim, sem látið hafa í ljósi álit sitt um þetta mál.

Að fjölga fulltrúum meira enn nægiligt mætti virðast eptir því sem nú er talið, til þess að veita þínginu "vald og álit," mundi þó vera vogunarleikur. Álit það, sem þjóðin og stjórnin fær á þínginu, mun efalaust verða allra mest undir því komið, hvernig þíngmenn leysa mál þau af hendi sem þeim verða fengin til íhugunar. Þess er t. a. m. að vænta, að 20 atkvæða yfirborð á móti 6 muni verða fullkomliga eins mikil ástæða fyrir stjórnina til að hugleiða nákvæmlíga ástæður meira hlutans, einsog þó 42 væri móti 6. Tilgángurinn mundi þó líkliga ekki vera að ótta stjórninni með atkvæðafjölda. Yrði þíngmönnum fjölgað framar enn hófi gegnir, væri lángtum heldur kvíðanda, að það hamlaði þíngstörfum ótilhlýðiliga, heldurenn vonanda væri að þau yrði fyrir það fljótar eður betur rekin. Þaraðauki er eitt atriði mikils vert, og mun raunin sýna, að alþíng muni ekki meta það einkis, en hvort sem væri, þá virðist sem stjórnin hafi fullkomna ástæðu til að meta það mikils, og það er kostnaðaraukinn þegar fjölga skal þíngmönnum.

Að sönnu kallar Í. ástæðu þá, sem tekin er frá kostnaðaraukanum móti fjölgun þíngmanna, "mótbáru, sem hvergi komi við málið sjálft," og hafi ekki einusinni leiguliðarnir úr Austfjörðum "virt sig til" að geta hennar. Í. mun naumast vita, að fjárheimta sú, sem jafnað er á lausafjárhundruðin á Íslandi, til að standa straum af sakamálum, gjalda með ferðakostnað þeirra, sem eiga að hafa hann gefins, og til annarra almenníngs þarfa (t. a. m. einsog farið er með jafnaðarsjóði amtanna í Danmörku) hefir að undanförnu sjaldan náð 2000 ríkisdala um árið um allt land, og þykir þó landsbúum fjárheimta þessi ærið þúng undir að búa, og bera sig optsinnis upp undan henni. Hèrumbil 2000 ríkisdala kostnaðarauki á ári hverju (eður milli 3 og 4000 dala annaðhvort ár) er þessvegna efalaust

svo mikilvægt atriði, að stjórninni mundi sæma að virða sig til að líta á það, því það eitt mundi verða nóg til að hverfa huga landsmanna frá þínginu öllusaman, sem olli álögu þessari.

Í. hefir enganveginn hrundið sönnun Ms. (enda mundi það og verða torsótt) fyrir því, að uppástúnga sú, sem minni hluti nefndarinnar á Hróarskeldu þíngi gjörði: að láta kjörgengi og kosníngarrètt gánga frá jarðeigendum til leiguliða að áratali, mundi leiða mikin dilk eptir sèr, og allt annað enn minni hluti nefndarinnar hafði fyrir sèð, er það einkum, að mikill fjöldi jarðeigenda, og það á meðal enna auðugari, sem menn verða þó að gjöra ráð fyrir sè betur mentaðir enn aðrir, verða sviptir þíngrèttindum, án þess að ábúendur jarðanna fái þau að sama skapi. Þarámóti áfellir hann M. harðliga, að öll ritgjörð hans sè fædd með lýtum og sprottin af dauðum bókalærdómi, vegna þess að hann hefir í hvorugu frumvarpinu kastað burt öllu því, sem veita mátti vissu um ad völin heppnaðist, og einkum vegna þess hann hefir álitið ógjörníng, þegar einföldum kosníngum væri haldið, að láta kjósa í hverjum hreppi eða í mörgum kjörsveitum í hverju kjörþíngi. Það er nokkurnveginn víst, að reynslan hefir sýnt hèr í Danmörku til fullnustu, að þar sem margir kaupstaðir eiga kjör saman, þar er sá kaupstaður vanur að ráða mestu um kosníngar, sem stærstur er í þínginu. Þegar einu kjörþíngi er nú skipt, almennast í 10 eða 12 sveitir, sem eiga opt illt með að ná saman sökum vegalengda eða torfæra, svó að innbúar einnar sveitar þekkja lítið eða ekkert til manna í öðrum sveitum (og enginn sá maður sem kunnugur er í heruðum á Íslandi mun geta neitað, að þannig sè opt háttað milli hreppanna, þó þeir sè í sömu sýslu), þá er mèr spurn, hvort nokkur líkindi sè til að kosníngar muni heppnast vel í slíkum kjörþíngum, eða hvort einn eða tveir hreppar, þeir sem stærstir eru, muni ekki ráða mestu um kosníngarnar, en þá hætta-

allar hinar kjörsveitirnar um leið að skipta sèr af hvernig kosníngar fara. Það er reyndar enginn dauður bókalærdómur sem hefir getað klakið út slíku frumvarpi; hitt er öllu heldur nokkurnveginn víst, að það vantar hvern snefil bæði af bókalærdómi og öllu viti.

Þetta bendir oss enn á að íhuga enar tvöföldu kosníngar, sem M. hefir síðar ráðið til og mælt fram með í "athugasemdum" sínum. Þegar M. var orðinn sannfærður um, að ekki væri hægt að gjöra þíngið einsog því var ætlað að vera, ef einfaldar kosníngar væri lögleiddar, og menn vildu þó ekki sleppa öllu, sem gat veitt nokkra vissu um að kosníngar heppnaðist, þá rèði hann til að yfirgefa þetta kosníngalag og taka til hinna tvöföldu. Menn lögðu það eitt móti þessari uppástúngu, að kosníngarmennirnir mundi leggja minni hug á kosníngar, og það var eina mótbáran. Það má nærri geta, eptir því sem Í. sjálfur lýsir M. að gáfum og kunnáttu, að honum mun ekki hafa komið að öllu óvart, að fleira mætti finna að tvöföldum kosníngum þegar á allt er litið, og það einkum sem Í. hefir tekið fram, að rígur gæti kviknað milli kosníngarmanna og kjörmanna ef óheppiliga tækist að kjósa, og að hægra væri þá fyrir einstaka menn að hafa hönd í með kjörmönnum, enn þegar einfaldar kosníngar væri hafðar. En það er eins líkligt að M. hafi haldið, að mótbárur þessar mundi einkis mega sèr á Íslandi, og að hann hafi ekki viljað gjöra málalengíng með því að tala um þær, þegar hann sá að engin brýn nauðsyn var á að hrekja þær; enda er það og hægðar leikur að sýna, að mótbárur þessar mega sèr einkis, einsog hèr stendur á:

Þar sem landsbúum er skipt í margar ólíkar stèttir, og hagsmunir hverrar stèttar við aðra ríða í bága, getur stundum farið svo, einkum meðan þíngið er í barnæsku, að kjörmenn veldi þá sem kosníngamönnum mætti verr líka, því svo mætti fara, að einir fáu kjörmenn kysi þann mann, er ekki færi að óskum meira hluta kosníngarmanna

fyrir hagsmuna sakir sjálfs sín; en til hins eru engar líkur aptur á móti, að kjörmenn kveði ekki þann mann til þíngsetu, sem að gáfum og framkvæmdarsemi bæri af öðrum í bygðarlagi sínu. Það er því hvorttveggja, að mótbára þessi má sèr ekki mikils, og hefir ekki rætzt í Noregi, enda á hún enganvegiun við á Íslandi, þarsem stèttamunur er svo að segja enginn, einsog áður er sagt, og sjaldan ber við að hagsmunir manna fara í bága. Og það er víst, að ólíkligra er að menn eiri kosníngum þeim illa, er gjörðar eru af kjörmönnum, enn þar sem einfaldar kosníngar eru í mörgum smásveitum í sama kjörþíngi. Þar sem menn óttast að einstakir menn muni hafa hönd í bagga með kjörmönnum framar enn vera her, þá hafa menn líkliga einkum fyrir augum, að stjórnin mundi neyta þeirra ráða sem standa í hennar valdi til þess, að kosníngar gengi henni sem mest að óskum, einsog vant er að vera þar sem konúngsvaldið er takmarkað, og er því ekki að neita, að þessu má hægar við koma við lítinn flokk kjörmanna enn við allan fjölda kosníngarmanna; en menn mætti þá spyrja, hvort en danska stjórn hafi nokkru sinni sýnt ena minnstu tilhneigíng til að beita einu einasta bragði til að geta snúið kosníngum sèr að skapi. Og þó menn geti ekki reidt sig á að hún fari því enu sama fram eptirleiðis, þá liggur þó Ísland 300 mílur frá aðalsetri stjórnarinnar, því er stýrt af embættismönnum, sem að einum undanteknum eru vanir að vera Íslendíngar, þaraðauki er landið svo víðlent, og ferðir strjálar millum heraða, og enn er lundarlagi Íslendínga þannig háttað, að þeir eru sjálfræðismenn og tregir á að fara að annarra ráðum, nema órækar ástæður sè til færðar, og má vera að þetta sè eitt af aðalauðkennum þeirra. Allt þetta er fullgylt veð fyrir, að hvorki stjórnin nè einstakir menn aðrir muni nokkru sinni geta ráðið við kjörmenn svo miklu skipti. Melsteð hefir sýnt, að ekki sè hætt við að landsmenn muni slá slakara við kosníngar þó þær sè tvöfaldar], en

það er auðsèð hèr hvernig Í. hefir lag á að fara með ástæður Ms. sèr í hag. M. hefir sagt meðal annars, að jafnan sè vanir að vera nokkrir menn í hverjum hrepp, er taki öðrum fram að sinnugleik, vitsmunum og mentun, og mundi þeir standa næstir til að verða kjörmenn. Af þessu leiðir Í. þá ályktun: að þareð bændur þessir hafi svo mikið álit meðal sinna líka, að líkligt sè þeir verði kjörmenn, þá muni þeir einnig geta leiðbeint bændunum sjálfum til að velja hentuga þíngmenn. Í. gleymir því, að það er fyrst þá, er hinir sinnugari bændur koma allir saman úr öllum hreppum í kjörþínginu, að M. þykist hafa vissu um að kosníngar muni heppnast; það er auðsèð, að þegar fjölmennur hreppur yrði mestu ráðandi um einfaldar kosníngar þá mundu einstakir menn, þeir er öðrum eru fremri þar í hreppnum, ráða svo miklu um kosníngar alþíngismanna, að það gengi úr hófi, og mætti verða hættusamt.

Það er því nokkurnveginn víst, að ástæður þær sem til eru færðar móti tvöföldum kosníngum verða öldúngis ógyldar, að minnsta kosti á Íslandi. Hugleiði menn nú þaraðauki, að þar er enginn efi á að sá einn kostur verður gjörr af stjórnarinnar hendi, að þetta kosníngarlag verði lögleidt, því að öðrum kosti getur hún ekki með neinu viti sleppt því, sem eitt getur veitt henni nokkra vissu um að kosníngar heppnist með einföldum völum, og það er: að setja nægiligan kjörstofn; en þó hann sè hafður svo lítill sem verður, mun hann jafnan valda miklum vandræðum þegar framkvæma skal, því hann hlýtur að svipta marga kosníngarrètti, er eptir stètt þeirra annars mætti þykja eiga hann skilinn, og einkanliga fækka kjörgengum mönnum, bæði að tölunni til og að útrými kjörgenginnar. Þá mundi það þykja fullsýnt, að M. hefir ekki fylgt neinni doða-reglu, þar sem hann kom fram með frumvarp sitt til tvöfaldra kosnínga og hefir haldið þeim fram, og þó menn verði að játa, að hann hafi reynt, svo sem hann gat, að sneiða hjá öllum

ójöfnum í frumvörpum sínum um þíngið, þá er þó ekki hin minnsta ástæða til að bera honum á brýn, að ótti og hugleysi hafi yfirborðið í allri ritgjörð hans. Hitt má reyndar sjá, að Í. setur lítt fyrir sig ójöfnurnar, þegar menn gæta að þarsem hann segir í "Föðurlandinu" Nr. 1282 á 2um dálki [1]) að allflestir Íslendíngar, þeir sem í Kaupmannahöfn eru, hafi tekíð seinni uppástúngu kammerráðsins fram yfir uppástúngu nefndarinnar, og reynt þessvegna til að halda henni fram meðan nokkur von var um að fá henni fram komið, en þarámóti segir hann í næsta blaði á undan, á 4ða dálki [2]), að M. hafi með öllu skakka og ránga hugmynd um þíngið.

Á þessum ástæðum munu menn líkliga án gapaskapar geta kveðið upp dóm yfir Í., sem "er svolátandi": að hann hefir ekki verið maður til að komast niður í nokkru einu af þeim mörgu málefnum er hann hefir ritað um; hann getur enganveginn gjört sèr ljósa nè fasta aðalhugmynd um alþíngismálið, þegar á allt skal líta, eða komið hverju atriði þess þar heim er það á sèr stað með rèttu; hann hefir ekki þekkt Íslands sönnu nauðsynjar eða ekki sinnt þeim, en apturámóti skortir hann ekki þor til að bera fram ógrynni af mótsögnum hvað ofaní annað. Það er því vonanda, að höfundurinn sè einhverr meðal enna ýngstu af enum íslenzku stúdentum, sem "ætti hægt með að fá aldursleyfi (veniam ætatis) hjá kansellíinu, til að láta vígjast til presta á Íslandi", og væri þá næstum óskanda að leyfi þetta lægi honum ekki öldúngis á lausu ef hann leitaði þess.

Hafi nú höfundi greinar þessarar tekizt að koma almenníngi á rèttara skilníng um framferðir Melsteðs kammerráðs, og að koma umræðunni um alþíngismálið í rètt horf, þá þykist hann, þó hann sè danskur maður, hafa farið að einsog vinur Íslands.

[1]) sjá að framan, bls. 44. [2]) sjá bls. 38.

# IV.

## ANDSVAR MÓTI ATHUGASEMDUM EINS "DANSKSINS" VIDVÍKJANDI ALÞÍNGISMÁLINU.

Berlíngur nokkurr íslenzkur (eða þó reyndar, svo er hamíngjunni fyrir að þakka, danskur) hefir orðið uppvægur útaf svari voru móti "athugasemdum" Melsteðs kammerráðs um alþíng á Íslandi, og hefir komið fram með lítilfjörliga eptirslettu í Nr. 192—4 og 96 í tíðindum Berlínga. Höfundurinn sýnir, að honum ferst ágætliga að stæla eptír blæ og ritshætti "dagsins"*) og oss þætti ekki kyn, þó sú yrði raunin á, að hann væri einn af "dagsins" gömlu vinnumönnum, sem rekinn hefir verið úr vistinni og ætlar nú að vinna sèr til vistar hjá Berlíngum. Vinátta sú við Ísland, sem hann er að reyna til að hafa sèr til skjaldarmerkis, sýnir sig sjálf, að hún er sömu tegundar og sú, sem menn hafa á verkfærum þeim, er menn nýta sèr meðan gagn er að þeim, viðlíka og manni þykir vænt um fótskör þá, sem hefir stoðað mann til að tylla sèr nokkru hærra enn maður hefði getað komizt án hennar. Andi sá, sem lýsir sèr í allri þessari grein, blær hennar og röksemdaleiðsla eru þesskonar, að vèr hefðum ekki virt oss til að svara höfundinum einu orði, ef hún hefði verið borin fram fyrir alþýðu á Íslandi; en hèr verðum vèr sannleikans vegna, og af því málið er svo mikilvægt, að taka til máls enn einusinni, og gjöra atriði þau ljósari, er hann hefir annaðhvort rángfært, eða flækt, eða þá leitast við að gjöra vafasöm með einhverjum sannleiks svip; því varla er við að

*) Það var dagblað, sem með öllu móti reyndi til að bæla niður frelsisanda í Danmörku, en hætti í sumar er var, því forstöðumaður þess strauk til Vesturálfu og tók með sèr allt að 20 þúsundum dala úr sjóði Sóreyjar skóla.

búast — enda virðist og sem höfundurinn hafi gjört ráð fyrir því, og leitast við með öllum hugsanligum brögðum að nýta sèr það — að þorri danskra lesenda, og það ekki þeir, sem láta sig íslenzk málefni nokkru varða, hafi borið saman eða tekið nákvæmliga eptir öllu því, sem fram er komið af hvorutveggja hendi; þaraðauki er hætt við að stöku maður hafi, ef til vill, látið þótta og rembilæti B^s þessa villa sèr sjónir, og ímyndað sèr að hann væri eins gagnkunnugur öllu ásigkomulagi á Íslandi eins og hann segist vera brèfasendíngum amtmannsins í suðurumdæminu árið 1837, eða stærð sakamálakostnaðar og niðurjöfnun hans þar á landi.

Höfundurinn leitast við með mikilli ákefð og harðfylgi, að gjöra aðferð vora í máli þessu tortryggiliga og óþokkaða, og dæmir af oss allt vit til að geta komizt niður í nokkru af málefnum þeim, er vèr höfum ritað um. Vèr ætlum ekki að þrætast við hann um þetta, og allrasízt fyrst að hinar slægðarfullu krækíngar hans í greininni sýna einmidt, að í grein vorri hafa verið æði margir kjarnsteinar, sem skarpleikur hans hefir verið of sljótenntur til að brjóta, og orðið því annaðhvort að láta óhrærða eða leitast við að krækja fyrir, eða þá rángsnúa með slíkum hætti, sem með engu móti sómir þeim manni, er nokkurs metur sannleikann, enda þótt hann riti undir hulins hjálmi.

Höfundurinn byrjar á því, að setja sèr fyrir að leiða mönnum einkum fyrir sjónir, "með hvílíku ránglæti, að hann ekki segi gapaskap", vèr höfum "fundið að aðgjörðum Melsteðs kammerráðs í máli þessu", og segir það sè "þess áfellisverðara", sem líkligt sè að hann geti ekki svarað neinu fyrir sig fyrrenn hèrumbil að ári liðnu; eptir það víkur hann málinu að "ákærum" þeim; — er honum þóknast svo að nefna — sem hann segir vèr höfum "kýngt" yfir ena íslenzku nefnd, og er óánægður yfir, að vèr höfum byggt dóm þann, er vèr höfum borið upp um aðgjörðir nefndarinnar, "einúngis" á meðferð þriggja málefna. Þessu verð-

um vèr að svara því, að vèr höfum enganveginn hafið þessa umræðu um málið á ný, heldur Melsteð kammerráð sjálfur, því hann hefir ekki einúngis leitazt við að verja þau atriði, sem líkligt er að allflestum Íslendíngum komi ekki saman um við nefndina, að minnsta kosti þeim sem utannefndar eru; heldur hefir hann einnig reynt til að gjöra lítið úr enum ýngri löndum sínum fyrir aðferð þeirra, og höfðu þeir þó ekki fundið með einu orði að störfum nefndarinnar opinberliga, fyrrenn þau voru orðin þjóðkunnug, og þeir menn, er færir voru um það að dæma, höfðu tekið þau atriðin fram, sem nú ræðir um, svosem aðalágalla á lagafrumvarpinu. Þó var þá enn einúngis talað um þetta mál eitt, en þegar einn nefndarmanna fer með slíkum hætti að reyna til að verja það, sem ritgjörð sjálfs hans sýnir bezt að ekki verður varið, og sjálf stjórnin, einkum konúngsfulltrúinn, játar gallana á í meira enn einu atriði, jafnvel þótt ekki yrði bætt úr nema litlu einu af göllum þessum, af því nefndin hafði einusinni látið í ljósi gagnstætt álit (þó hún hafi í raun og veru tekið það aptur), og þegar talsmaður þessi vill láta nefndina vera að öllu óyggjandi í málefnum Íslands — þá er kominn tími til að rannsaka nokkru nákvæmar, hversu óyggjanda það sè, sem maður hefir fyrir sèr, og að hve miklu leiti nefndin hafi gætt nauðsynja landsins í hinum helztu málefnum, er undir aðgjörðir hennar voru lögð. Það er býsna undarlig og hlæilig krafa til "ráðbragðs" vors, að vèr hefðum annaðhvort átt að þegja með öllu, eða fresta lengur svari voru, fyrir því að kammerráðið mundi ekki geta svarað fyrrenn að ári liðnu; það mun þá vera svo að skilja: að vèr hefðum átt að svara fyrst að sex mánuðum liðnum, svo kammerráðið hefði hina sex til að búa sig undir að svara aptur; en að svara að sex mánuðum iðnum, einkum þegar maður er hèr nálægur, væri hèrumbil sama og að þegja með öllu, og væri slíkt svo rángt, að því væri engin bót mælandi eptir því sem hèr stendur á.

Þegar Melsteð kammerráð skýtur málinu undir dóm danskrar alþýðu, verður hann sjálfur að sjá fyrir með hverjum hætti hann geti fylgt því, annaðhvort sjálfur eða þá með því að fá sèr undirtyllur, — enda hefir hann og fengið eina! — Það lítur svo út, einsog höfundurinn sè hræddur um, að athugagreinir vorar móti meðferð nefndarmanna á þremur hinum mikilvægustu málefnum er þeim voru fengin til íhugunar, muni veikja traust það, er menn hafa orðið að hafa á nefndarmönnum hingað til, eptir því sem menn gjörðu sèr í hugarlund að þeir væri að sèr gjörvir, en til þess verðum vèr að svara: að þegar málalok á störfum nefndarinnar og ágrip af aðgjörðum hennar eru lögð almenníngi fyrir sjónir, þá verður hún að vera búin við að fundið verði að, hvernig sem aðfindni þessi verður, enda kveðst og Melsteð kammerráð hafa búizt við því, þótt hann hafi ekki viljað þola neinum aðfindnina nema sjálfum sèr, þegar að fram kom. Sè aðfindnin einræníngslig eða ósanngjarnlig, þá mun veita hægt öðrum eins gáfumanni og Melsteð kammerráð er, eða slíkum oflátúngi sem þessi er, undirtylla hans, að reka hana, en sè hún bygð á sannleika, þá hefir sá, er fundið er að við, unnið til hennar. Það mun þó, ef til vill, ekki um skör fram að geta þess, að öll aðfindni vor lýtur til þeirra, sem voru í enni íslenzku nefnd, að því einu leiti og engu öðru, sem þeir voru nefndarmenn, fulltrúar landsins, er voru beinlínis kallaðir til, og fengu laun fyrir, að bera vott um mentun þess, halda uppi sóma þess, vernda þess rèttindi, og leggja undirstöðuna til æðri framfara þess í landstjórnarmálefnum; en vèr höfum ekkert tillit haft til þess, hvernig menninir væri sjálfir, hverr um sig, eða hvernig embættisstörfin lèti þeim, því það kemur ekki þessu máli við.

Höfundurinn kvartar yfir, að vèr höfum byggt dómsatkvæði vort (eða rèttara að segja, dóm almenníngs á Íslandi, er vèr höfum af hendíngu orðið til að bera fram) "einúngis"

á aðgjörðum nefndarmanna í þremur málefnum; það er vegna þess, einsog vèr gátum um, að þessi voru hin atkvæðamestu af málefnum þeim, sem nefndin átti að íhuga, og þurfti þess að litið væri hærra þegar þau skyldi leysa vel af hendi. Það má reyndar vel vera, að höfundurinn geti tilgreint einhver önnur málefni, er ekki hafi verið betur af hendi leyst, t. a. m. hefðarmálið, er einnig hefir tvisvar gengið í gegnum hreinsunareldinn, eða þá, ef höfundurinn vill það heldur, vegabótamálið; vèr ætlum samt að halda oss til þeirra málefnanna, er tilgreind eru, og sýna, að það er "nokkurnveginn víst" að höfundinum hefir tekizt "mjög óheppiliga" að verja meðferðina á þeim.

Að því er viðvíkur skólamálinu er nóg að geta þess, að nefndinni var falið á hendur, að því sem stendur í enum prentuðu tíðindum, að íhuga, að nokkru leiti hvort hagfeldara væri að koma fram endurbót þeirri, er gjöra átti, á Bessastöðum eða í Reykjavík, og að nokkru leiti um það atriði, að hve miklu leiti landið sjálft muni geta staðið þann kostnað, er af endurbótinni leiði. Nefndarmenn þrættust með miklum ákafa um skólastaðinn, en um hitt eru þeir fáorðir, hversu endurbótin átti að vera löguð, og láta þeir það á litlu standa; ekki er heldur reynt til að flýta henni, og það enda með því að leggja nokkuð í sölurnar, þó búið væri að ræða málið í 10 ár (síðan hefir það enn hjarað 4 ár, og er þó ekki komið svo á veg, að farið sè að taka til verksins). Það lítur svo út, sem höfundurinn þykist af því, hversu vel það hafi verið íhugað í krók og kríng, hvar skólinn ætti að vera* (á Bessastöðum eða í Reykjavík), en það hefir þó komið fram síðan, að með allri aðgætninni á allar hliðar, hefir nefndin samt ekki gætt þess, að í Reykja-

*) Það er og í rauninni eptirtektavert, að þrætan um skólastaðinn tekur nær því fjórða hluta af tíðindunum frá fyrra fundinum.

vík sjálfri er margur blettur, sem gat krafizt þeirrar sæmdar, að vera skólastæði, og eptir því sem sagt er hefir þrætnin um þetta valdið miklum heilabrotum og orðið efni til heillángra ritgjörða. Nefndarmenn hafa því ekki heldur rædt þetta málefni til fullnustu. Hvort það sè nú að gánga til grunns í málinu, að sökkva sèr niður í þesskonar smásmugliga keppni um húsastæði, því skjótum vèr undir dóm sèrhvers lesenda. Vèr þurfum ekki heldur að eyða mörgum orðum til að sanna, hvort hitt atriðið — að segja að hve miklu leiti Ísland sjálft mundi geta staðizt kostnað þann, er af endurbótinni risi, — gaf tilefni til að rannsaka — eða þá að minnsta kosti til að ræða um það með nokkrum fyrirvara — hve mikið skólinn ætti til, og hefði nefndarmenn vafalaust getað haft mikinn stuðníng af reikníngum þeim, sem biskup og landfógeti höfðu samið, og svo af athugasemdum stiptamtmannsins við þá, þótt þeim hefði ekki verið sendir enir nákvæmari reikníngar um eignir skólans, sem rentukammerið hefir látið semja, og er þetta þó nær því ótrúligt þegar slíkt var fyrir þá lagt. Álit nefndarmanna um þetta atriði er það eitt, að þeir segja allir í einu hljóði: að það sè með öllu ómöguligt að útvega skólanum annann styrk á Íslandi, enn sjóð þann er hann eigi þá; að það mundi án efa vera til einkis að reyna til að safna gjöfum handa honum á Íslandi, og að óráð væri að auka tekjur skólans með nýjum skatta-álögum, einkum þareð skólavera pilta mundi verða foreldrum þeirra kostnaðarmeiri, þegar endurbótin væri gjörð, enn áður, allra helzt ef skólinn yrði fluttur til Reykjavíkur. Þegar þeir gjöra þaraðauki allir ráð fyrir, að skólinn eigi að eins 52,135 ríkisdala, til að kljúfa framm úr 6—7,000 ríkisdala árligum útgjöldum, þá verðum vèr að spyrja, hvort ekki hafi verið hin allra sterkasta hvöt, annaðhvort til að grenslast sjálfir nákvæmar eptir fjárhag skólans, eða þá krefjast að hann væri nákvæmligar rannsakaður, því það var auðvitað, að það mundi

ekki verða hægðarleikur fyrir hina "föðurligu umhyggju" skólaráðsins, (sem minnihlutinn ákallar svo sakleysisliga einsog hann væri í paradís), að koma nokkurri endurbót á stofu, sem til hlýtar væri, þegar embættismenn þeir, sem líkindi voru til að væri eins kunnugir fjárhag skólans og rentukammerið, og kunnugri enn skólaráðið, sem aldrei hefir beinlínis haft reiknínga skólans undir höndum að undanförnu, álitu skólann með öllu fjárþrota. Það lítur reyndar svo út, sem skólaráðið hafi látið sig mál þetta miklu varða, þó það hafi dregizt nær því ótrúliga lengi, (einsog flest önnur málefni Íslands), og er það eitt til merkis, að hún hefir leyft einum landa vorum að skoða reikninga þá, er áður var getið, og skírteini þau, er þeir eru bygðir á, og hefir hann með því móti fengið færi á að afla sèr, að því sem sjáanligt er, áreiðanligrar þekkíngar um fjárhag skólans, sem hann er í raun og veru. Höfundurinn lætur sèr lítið finnast til röksemda þeirra, er þessi landi vor hefir borið fram (sjá Ný Fèlagsrit 1842) fyrir því, að skólinn yrði að eiga hèrumbil 150,000 ríkisdala, þarsem nefndin gjörði ráð fyrir að hann ætti einúngis 50,000, en vèr trúum því samt ekki, að röksemdir þessar sè eins óáreiðanligar og höfundurinn heldur, og höldum að þær sè á góðum rökum bygðar. Vèr höfum ekki rúm til þess hèr, að skíra frá öllum atriðum svo ljósliga, og á svo sannfærauda hátt, sem auðið er að gjöra, og munum vèr því geta þess eins, er helzt liggur í augum uppi, og það er: að auk þeirra áðurtöldu 50,000 dala (eða svo allt sè talið: 52,599 ríkisdala og 89 skildínga), hefir rentukammerið sjálft bent til að skólinn ætti: a) andvirði Skálholtsgózanna, sem ákveðið var til 62,500 ríkisdala í konúngsbrèfi 29da Apríl 1785. b) konúngligt skuldabrèf frá 1786, uppá 500 ríkisdala í kúranti, með leigum og leiguleigum síðan 1805. c) annað konúngligt skuldabrèf, 109 d. 42 sk. í kúranti, með leigum og leiguleigum frá

því það var gefið út[1]). d) 3,919 ríkisdala í krónum, með leigum og leiguleigum síðan 1779. e) verð innstæðu frá Hólum, sem menn vita ekki upphæð á, og er mælt að kansellíinu hafi verið sendur reiknángur fyrir það. f) tíundir úr nokkrum sýslum og afgjald af óseldum jörðum, er nemur hèrumbil 5—6000 ríkisdala sjóði. Við þessa peninga eina eykst skólasjóðurinn lángtum meir enn um helmíng. Þaraðauki má geta útgjalda þeirra, er rángliga eru lögð á skólann, og er það yfir 12,000 dala; en hitt er þó mest um vert, að eptir aðferð þeirri sem höfð hefir verið á að semja reikníng þann, sem rentukammerið hefir látið gjöra[2]), missir skólinn leigur og leiguleigur af álitligu fè, er hann hefir lagt upp, einkum þángaðtil árið 1815; þetta fè er talið svo, að ár 1790 sè það 1810 ríkisdalir, 1802: 7220 ríkisdala (auk ens fyrra), og 1816: 57,393 rd., auk hèrumbil 20,000 ríkisdala af andvirði Hólagózanna, er sent var beinlínis til Kaupmannahafnar. Tjón það, er skólinn verður fyrir með þessu móti, er álitliga mikið, og þaraðauki hægt að telja, þareð það væri nú orðið jafnt höfuðstólnum sjálfum, en annað atriði er þaraðauki, sem ekki er nefnt í Fèlagsritunum, og mundi það enn, ef til vildi, og betur væri að gætt, verða skólanum til töluverðs ágóða; það er breytíngarreiknángur á sjóði skólans þegar peninga-gángverðið breytist; erum vèr mjög efablandnir um, hvort það hafi verið gjört að rèttum lögum, því búið var að selja mestan hluta Hóla-gózanna

[1]) Hvað megá menn hugsa? það er svo lángt frá, að samdir hafi verið skólareikníngar sèrílagi um öll árin frá 1785 til 1834, að ekki hefir einusinni verið skeytt um að hirða leigurnar af innstæðum hans.

[2]) Í reiknángi þessum, sem annars kvað vera gjörður með mikilli athygli og nákvæmni í einstökum atriðum, er slegið saman öllum árum þeim sem reikninga vantar frá (1785 til 1834) í sèrhverju atriði, bæði í tekjum og útgjöldum, í stað þess að reikníngur hefði átt að vera saminn fyrir hvert ár.

fyrr enn 1808*), en peninga-breytínguna á ekki að telja fyrr enn frá 11ta Júní 1810, eptir því sem segir í 8du grein í hinni íslenzku peníngatilskipun 20ta Marts 1815. Auk atriða þessara eru enn nokkur önnur, er vèr hleypum hèr framhjá oss, þvíað þau eru bæði nokkru vafasamari og lítilsverðari í sjálfum sèr enn þessi, sem talin hafa verið. En þar er enginn efi á, að það sem hèr er talið fer sèr hægt að þrefalda sjóð skólans við það sem nefndin í allri sinni auðmýkt hefir gjört ráð fyrir, og vèr vonum að skólaráðið sýni þá atorku, að láta skólann ná þessum rètti sínum. Nefndinni hefði orðið að vera auðvelt að verða vör við en helztu af atriðum þessum, að minnsta kosti, en þareð hún hefir ekki orðið það, nè heldur áskilið skólanum nokkurn rètt í því tilliti, þó henni væri lagt fyrir að stínga uppá með hverjum hætti kostnaðinn skyldi greiða af eignum landsins, þá spyrjum vèr, hvort nefndarmenn geti skýlaust sagt, að þeir hafi í þessu máli gætt hagsmuna landsins, verndað rèttindi þess, þekkt, gefið gaum að, eða borið fram nauðsynjar þess svo sem þeim bar, eða hvort þeir hafi ekki þvertámóti einsog óskað þess, að hin eina vísindastiptan, sem á landinu er, mætti haldast við á eintómri ölmusu frá Danmörku, er þeir kusu helzt að væri svo mikil sem orðið gæti.

Þá er spítalamálið — þar krefst höfundurinn að vèr hefðum átt að kynna oss, að landlæknirinn á Íslandi, sem bæði er rèttsýnn og vel að sèr, hefði ráðið til að verja ekki efnum þeim, sem spítalarnir ætti, til lækníngaþarfa. Það er nú bæði, að í enni prentuðu bók um aðgjörðir nefndarinnar stendur ekki einn stafur um að landlæknirinn hafi sagt þetta, og þvínæst er það oss óljóst, hver þýðíng höf. ætlar til að sè í grein þessari, sem hann þykist taka eptir honum; ætli höfund. að *þýðingin* sè sú, að ekki ætti

*) Sbr. Engelstofts Universitets og Skoleannaler 1813, bls. 198 og 238.

að **svipta** spítalana því sem þeir eiga, og hafa það til launa handa læknum hèr og hvar á landinu, eður ljósmæðrum, eður handa almennum spítala í Reykjavík, eður einhvers þvíumlíks, þá mundi oss hafa þótt það nema einhverri átt að þannig hafi verið mælt; en ætti hitt að vera undir skilið, að ekki mætti slá saman eigum spítalanna, svo að allt skipulag þeirra, sem nú er, mætti ná að verða bætt frá rótum, einsog ávallt hefir verið þörf á, jafnlengi og þeir hafa staðið, þá þykir oss ótrúligt, að landlæknirinn skuli hafa fengið ástæður til að víkja frá áliti því, sem hann lèt í ljósi árið 1830, og byggt var á góðum rökum, því þá óskaði hann "að spitölunum yrði slegið saman og gjört úr þeim almennt sjúkrahús, þannig lagað, að þar yrði tekið **bæði við holdsveikum**, fyrst framanaf, meðan sjúkdómur þeirra væri ekki magnaður, og **þaraðauki við sjúklíngum sem hefði ymsa aðra kvilla;**" heldur hann, að með þessari tilhögun mundi bæði verða hægra að lækna holdsveikina sjálfa, og að læknisfræðin mundi hafa not af því að mörgu öðru leiti*). Vèr verðum því að álita svo, að annaðhvort hafi höfundurinn hèr asnast útí gönur eða misskilið landlækninn.

Þegar höf. er að segja, að enir íslenzku líkþrá-spítalar hafi "staðið um heilar aldir og unnið mikið gagn", þá verður hann hverjum Íslendíngi að athlátri, því hið fyrra, sem hann telur þeim til gyldis, er sá eini framinn, að margur slóðahátturinn getur þókst af honum, en hitt hið síðara er bæði móthverft allri reynslu og áþreifanligustu rökum, sem hverr landlæknir eptir annann hefir til fært, og Dr. Hjaltalín nú fyrir skömmu í riti sínu "*om Leproserne*", og hefði höf. "átt að kynna sèr það", fyrst hann vildi tala frammí þetta mál. Það er ærið lángt síðan, líkliga eins lángt og spítalarnir eru gamlir til, að alþýða á Íslandi hefir álitið þá gagnslausa, og til eintómra

*) *Bibliothek for Læger* 13da B. bls 91—106.

þýngsla; þeir voru stofnaðir á þeim tíma, þegar enginn fastur læknir var á landinu, og um ætlunarverk þeirra var ekkert fastráðið, nema að þeir skyldi vera til hælis nokkrum sjúklíngum, sem þjáðust af viðbjóðsligum sjúkdómi, er menn hugðu ólæknanda. Bæði landlæknar og aðrir hafa margsinnis kvartað yfir, hversu aumliga þeir væri á sig komnir og óhentugliga lagaðir[1], og nú að síðustu stakk Bardenfleth stiptamtmaður uppá, að þeim væri slegið saman og annarri lögun komið á þá, en útaf frumvarpi hans hefir risið umræða sú, sem hefir leidt til þeirra málaloka er vèr finnum að. Það má kalla fullsannað hèr á ofan, að framfæri spítala-ómaga, þeirra sem ólæknandi eru (og það er einmidt aðal-yfirsjónin, að ólæknandi menn eru teknir þángað einúngis eða öðrum framar, því þarmeð er játað, að spítalarnir sè engin lækníngahús) er landinu hèrumbil tvöfalt kostnaðarmeira, þegar þeir eru fæddir á spítala, enn þegar hverr er á sveit sinni, og eiga þó engum mun betra (nema ef vera skyldi á Möðrufellsspítala, að minnsta kosti um hríð). Enn er þess að geta, að spítalar þessir hafa aldrei allt að þessu getað tekið við fleirum enn sem svarar 20ta hverjum holdsveikum manni á landinu, og þaraf leiðir þá aptur, að holdsveikin eykst þar ár eptir ár, svo ætla má að landið líði að minnsta kosti 16 þúsund dala tjón á hverju ári við þennan sjúkdóm einan[2]. Þegar menn hafa slík órækvitni í höndum, og jafnframt má álíta hitt sannað, að yfirbuga megi sjúkdóm þenna og útrýma ef til vill að nokkrum tíma liðnum, og þaraðauki, að spítalarnir allir saman eiga svo mikið, sem nægja mundi að mestu

---

[1] "Þess væri þó mjög óskanda — að þeim (spítölunum) yrði annaðhvort komið úr þessari óveru, sem þeir eru nú í, eður hreinliga lagðir niður og gjörð úr þeim einhver sú stiptan, er mætti verða landinu að meiri notum." M. Stephensen, *Island i det 18de Aarh. bls. 349.*

[2] Dr. Hjaltalín bls. 129.

til viðurhalds einni stiptun, er fullnægja mætti tilgánginum — þá getur engum skynsömum manni dottið annað í hug, enn að endurbót sè næsta nauðsynlig, þarflig og vel vinnandi, ekki til að taka fyrst Dr. Hjaltalín, sá maður sem sèrílagi hafði tekið fyrir sig að rannsaka sjúkdóm þenna ýtarligar enn áður hafði verið gjört, bauð sig næstum því til að fyrra bragði að veita stiptuninni forstöðu; átti það þá ekki að vera áhorfsmál, að slá saman eigum þeirra allra saman, fyrst ekki var að vænta að tilgánginum yrði framgengt með öðrum hætti. En hvílíkur varð nú úrskurður nefndarmanna? — að reyna fyrir sèr fyrst í stað (!!) með Kaldaðarnes eitt, og fá sèr lækni, er hafa skyldi jörðina til ábúðar afgjaldslaust og 100 ríkisdala viðbót á ári, en hann skyldi aptur á móti vera skuldbundinn til að veita viðtöku þessum (ólæknandi) spítala-ómögum, sem þar eru nú, með sömu kjörum og áður, láta þaraðauki byggja lækníngahús á kostnað sjálfs sín og taka þángað bæði við holdsveikum mönnum og öðrum sjúklíngum fyrir slíkt kaup, sem nefndin leyfði sèr að ákveða að vera skyldi 7 ríkisdalir fyrir hvern mánuð. Hinir spítalarnir skyldi standa óhaggaðir, það sem Kaldaðarnes á í jarðabókarsjóðnum á leigu skyldi einnig liggja óhaggað og ennfremur 'aukast á hverju ári, en lækninum, með heila 200 dali í laun, átti að gjöra svo vel að koma upp lækníngahúsi, með öllum þeim umbúnaði sem þartil heyrir, af sjálfs síns ramleik. Frumkvöðull málsins (Bardenfleth) stakk þó uppá að gefa lækninum 100 dali í þokkabót þegar honum tækist vel lækníngar, en nefndinni fannst, að óþarfi væri "að leggja svo mikið í sölurnar" (það eru hennar eigin orð)*). Þessi urðu þá endalok málsins, eptir að það hafði tvisvarsinnum verið rædt á nefndarfundi og 2 ár liðið á milli, og enn að nærfellt tveim árum liðnum eptir þetta stíngur kansellíið uppá við Dr.

*) Sbr. Dr. Hjaltalín om Leproserne S. 128—29.

Hjaltalín, að taka á móti slíkum kjörum, en það kom fyrir ekki, einsog nærri má geta. Nú verðum vèr að spyrja á ný, hvort hèr lýsi sèr þekkíng á landsins sanna gagni, eða því sè gaumur gefinn, eða hvort menn hafa borið það fram? hafa ekki bæði lítilmennska og einræni ráðið hèr mestu? getur höf. eða nokkurr maður sagt fyrir, nær málinu verði hreift á ný, eða nær vænta megi, að það verði útkljáð á þann hátt sem landið megi not af hafa? Slík málalok mega hverjum manni jafnt hýsnast og gremjast.

Hvað nú að síðustu alþíngismálinu viðvíkur, þá þurfum vèr ekki annað enn drepa á aðalatriði þau, sem menn greinir á um, og mun þá sjást, að málalokin verða öll hin sömu. Hvort ætli mundi fara nær augnamiði því, sem konúngur hefir svo berliga sagt að ætlað væri fulltrúaþíngunum, eða hvort mundi samsvara betur þörfum og óskum ennar íslenzku þjóðar: alþíng, sem allir menn mætti eiga þátt í, sem væri frjálsir menn og fulltíða, og sjálfum sèr ráðandi, eða samkunda sú, sem boðaður væri frá mesti hluti mentaðra manna og allir fjórir hlutar bænda að minnsta kosti, ekki af því að eignir þeirra nemi ekki tiltekinni verðhæð, heldur af því svo hittist á, að þær eru ekki af tiltekinni tegund; — alþíng, sem ekki þirfti nema að sjá, til þess það vekti lotníngu hjá þjóðinni og gleddi þá von hjá henni, að þar væri þíng skipað fjölhæfum gáfumönnum, eða slík samkunda, sem betur ætti við að kalla nefnd eða nefndarkorn; — alþíng, þarsem móðurmál þjóðarinnar væri mælt eingaungu, eða samkunda nokkur, skipt í tvo flokka, og talaði sitt mál hvorr, svo ólíkt hvort öðru og óskiljandi að túlka verður að hafa á báðar hendur til að þýða það sem mælt er*); — alþíng, sem ekki forðaðist

*) Það væri ekki fjærri að rifja hèr upp fyrir sèr "auðmýkt" þá (er konúngsfulltrúinn svo kallaði) hjá Reykjavíkur-nefndinni, er hún telur það "náðarpant frá hendi Hátignarinnar" að mega hafa móðurmál sitt — og því mátti þá ekki eins telja málfærið sjálft sem náðargjöf konúngs?

dagsljósið, heldur sýndi djörfúng og einurð feðra vorra, eða samkunda sú, sem lokaði að sèr dyrunum og gluggunum líka, ef til vill, og gætti þess vandliga, að ekki kvisaðist meðal alþýðu eitt orð af því, sem fram færi í fylsnum hennar. Það virðist svo, sem hèr sè hægt að kjósa um tvenna kosti. Reykjavíkur nefndin hefi kosið alla ena síðarí, en þjóðin — já, vèr þorum að segia hvert mannsbarn af þjóðinni — þá ena fyrri. Að hve miklu leiti þjóðin muni lýsa vilja sínum, getum vèr ekki sagt, einsog nærri má geta, en lýsi hún honum, þá efumst vèr ekki um, að Hans Hátign konúngurinn muni vissuliga verða við bæn hennar og gjöra þjóðstiptun þessa sem fullkomnasta, sem er sjálfs hans verk í fyrstu, því þótt höf. eða aðrir ögri mönnum með því, að ekki sè að hugsa til, að konúngur muni fallast á hitt eða þetta (t. a. m. svo mikið kosnínga frelsi sem við þarf á Íslandi), þá trúa slíku fáir þar á landi enn sem komið er, heldur þykjast flestir þess fullvissir, að konúngurinn muni samþykkja allt það sem skynsamligt er og þjóðin æskir, og vænta má að henni megi verða til heilla og hamíngju, og það án þess að talsmenn hennar þurfi að nauðbetla það fram (vèr tökum þetta orð í stað hins: "að koma fram", sem höf. hefir steytt sig á).

Þetta sem nú var mælt ætlum vèr fullgyldar ástæður fyrir þeim dómi, sem vèr höfum borið fram um aðgjörðir ennar íslenzku embættismanna-nefndar í þremur enum merkustu málum sem henni voru fengin til meðferðar. Vèr ætlum nú að eins í fám orðum að svara enum fáu athugasemdum höfundarins, sem svara þarf eður hrekja.

Þá er fyrst að svara því, er hann gefur oss að sök að vèr förum með "ósannindi", af því vèr kvað hafa sagt, að alþíngismálið hafi verið optar enn einusinni sent enum æðri embættismönnum til yfirvegunar; þetta höfum vèr fyrst ekki sagt hiklaust, heldur dróum vèr úr því með því að segja "ef til vill"; eru það reyndar lítil orð

og hefir höf. því leyft sèr að hleypa þeim úr, til þess hann hefði meiri átyllu fyrir áburði sínum; en þó vèr nú aldrei hefðum nema sagt það hiklaust, þá hefði ekki verið stórum mishermt. Þegar árið 1831 voru amtmenn á Íslandi kvaddir til að segja álit sitt um, með hverjum hætti Ísland gæti átt þátt í fulltrúaþíngi með Eydönum; árið 1837 var bænarskrá sú, sem fyrr var getið, um það að þíng yrði sett í landinu sjálfu, send frá amtmanni fyrir sunnan, einsog höf. segir, þaraðauki frá amtmanni fyrir norðan, að því er vèr ætlum, og svo þaráofan ef til vill (mættum vèr dirfast að geta í vonirnar!) frá amtmanni fyrir vestan, því uppskriptir af henni lágu víða og voru sendar umkríng handa þeim sem rita vildu nöfn sín undir[1]; árið 1839 var málið rannsakað á Reykjavíkurfundi og kosníngarlög samin, skyldi kjósa þrjá fulltrúa af öllu landi með þreföldum kosníngum til Eydana-þíngs. Þarna voru þá margföldu kosníngarnar uppgötvaðar, og hefði því mátt taka þær fram árið 1841, en það lítur svo út sem þær hafi ekki átt mjög upp á háborðið í það sinn, ef ráða skyldi af því, hvernig orð liggja til þeirra í Kollegíaltíð. Nr. 26, 1840, þarsem frá málinu er skírt.[2] Að síðustu var málið rædt árið 1841, og var þá samið, eða rèttara að segja skrifað upp úr enni dönsku tilskipun[3], frumvarp það sem fram var borið á Hróarskeldu þíngi. Það

[1] "Föðurlandið" 16da Marts 1840, Nr. 102.

[2] Þar segir svo: nefndin hèlt, að kosníngarlög þessi, sem veita mönnum AÐ EINS óbeinan þátt í kosníngum, mundi framar vekja óánægju meðal alþýðu yfir að eiga slíkan þátt í þínginu heldurenn snúa hug hennar til þess.

[3] 46ta grein, sem segir fyrir hversu kveðja skal varafulltrúa til þíngs, er eitthvert hið ljósasta merki þess, hve dyggiliga skrifað er upp úr enu danska frumriti; þar er skipað, að varafulltrúa skuli til þíngs kveðja áður vika sè liðin af þíngi; þíngtíð er talin til 4ra vikna; sendimaður fer varla leiðina áfram til 5 enna fjarlægustu sýslna á minna enn 6-8 dögum. Af þessu verður líkliga auðráðið, að varafulltrúinn muni

mun því vera "nokkurnveginn víst" (einsog B. segir) að "óhætt mun að skjóta undir álit hvers óhlutdrægs manns, og mun ekki þurfa að óttast að svarið gángi manni á móti", hvort þeir, sem þegar árið 1836 sömdu bænarskrá um þíng í landinu eða rituðu undir hana nöfn sín, ekki hafi haft tíma eður tækifæri eður hvöt til að hugsa sig um helztu atriði til kosníngarlaga fyrir landið, einkum fyrst nefndarmenn máttu vera orðnir þess þá þegar vísari af reynslunni, að þíngtíðin var stutt en miklu af að ljúka. Það er þessvegna mjög hègómligur bætifláki að segja, að "hitt geti maður jafnframt fúsliga viðurkennt", (það er einmidt það sem vèr vildum), að nefndin hafi ekki hitt hin hagkvæmustu kosníngarlög fyrir landið, því eptir aðdragandа málsins mátti ekki minna af henni heimta, ekki að nefna um atriði það, sem Melsteð kammerráð og meiri hluti hinna annarra nefndarmanna hefir rekið að síðan, og það er að kjörgengi verði frjáls. Hefði þetta áunnizt eða enn meira með tveggja ára dvöl, þá mundi varla nokkurr maður hafa mælt á móti þó svo hefði farið, allrasízt fyrst svo horfist á, sem fyrsti alþíngisfundur verði tæpliga fyrr enn árið 1845, og mun þó enn lengra að bíða þess, að þeim atriðum, sem menn greinir á um, verði breytt að óskum þjóðarinnar.

Höf. kvartar yfir, að röksemdaleiðsla vor sè "nokkuð á hlaupum" og "grunnhyggilig", því hefir hann og leyft sjálfum sèr að "hlaupa" yfir tvö hin helztu atriði málsins, þar sem vèr leituðumst við að reka mótmæli Melsteðs kammerráðs, móti því, að móðurmál vort verði eingaungu talað á þínginu og að aðgjörðir þess fari fram í heyranda hljóði. Vèr þykjumst með öllum rètti mega taka þetta svo, eptir því sem höf. hefir farizt að, að hann sè oss samdóma í þessum greinum, eða hafi að minnsta kosti

koma, þegar bezt gengur, einmidt mátuliga til að hlýða á (ena dönsku?) uppsagnarræðu konúngsfulltrúa.

ekki viljað styðja mótbárur Melsteðs kammerráðs í þeim atriðum. Það eina sem hann lætur til sín taka, er atriðið um fulltrúafjöldann og um kosníngarlögin.

Hvað nú fulltrúafjöldanum viðvíkur fyrst, þá er það rángliga gefið oss að sök, að oss skuli hafa gengið nokkurskonar gum til þess, að segja frá tölu lögrèttumanna í fornöld; það mun hægt að minnast, að Melsteð kammerráð tók fyrstur uppá "að sýna lærdóm sinn" á því að nefna ránga tölu, og ætlaði sèr að kollvarpa með því berum sannleika. En þó höf. hafi ætlað að hafa hèr hægt um sig og varast að mæla móti, þá hefir hann samt ekki getað sneidt hjá að koma upp um sig, þegar hann vill fara að "sýna lærdóm sinn" og segja frá stjórnarháttum á Íslandi í fornöld. Hann vill sumsè leggja það svo út, að alþíngið var þá fjölskipaðra, sem hafi það verið til að ótta með mannafla, því þá hafi ofurefli ráðið rètti, og það er á honum að heyra, að slíkt hafi átt sèr framar stað á Íslandi enn í öðrum löndum í þann tíma, talar hann og um alþíng svo, sem "bæði löggjafarvaldið og hið æðsta dómsvald hafi verið í þess höndum". Allt þetta, sem höf. fer með, lýsir svo fullkomnu þekkíngarleysi um hina eldri skipun alþíngis, og sýnir hversu allt er hèr í þoku fyrir honum, að vèr neyðumst enn á ný til að skíra frá, hversu til var hagað. Þess verður þá að gæta, að um allan þann tíma, sem hèr er um að ræða, var dómsvald og löggjafarvald að öllu aðskilið á Íslandi, og rèði lögrèttan, sem menn greindi á um hversu fjölskipuð verið hefði, einúngis lögum og lofum*); dómsvaldið var þáramót fengið í hendur fernum nefndardómum, sem kallaðir voru fjórðúngsdómar, og einum nefndardómi, sem var yfir öllum hinum og kallaður fimtardómur. Ætlun sú hjá höf., að ofurefli hafi ráðið meira enn rèttur í fornöld á Íslandi, framar enn annarstaðar, lýsir einmidt því, að höf. veit ekki hót

*) Grágás í lögrèttuþætti.

um, hvernig ástatt hefir verið á Íslandi nè í öðrum löndum á fyrri öldum; hyggnum mönnum hefir fyrir mart-laungu fundizt mikið um mentun þá og vísindi, sem áttu heima á Íslandi, einkum á 11tu og 12tu öld, hjá því sem þá var í öðrum löndum að tiltölu, og hvað þíngfriðinn snertir, þá finnast þess engin dæmi að hann hafi rofinn verið í lögrèttu, eða að það hafi haldið til friðarins að lögrètta var svo fiölskipuð, — þaraðauki rauf "þjóðin" aldrei friðinn, heldur höfðíngjarnir sjálfir; það var heldur enganveginn af ótta fyrir friðrofi, að alþíngismenn voru svo margir fyrrum, heldur leiddi það beinlínis af því, að landinu var skipt í 48 lögfull goðorð. En hvað atriðinu viðvíkur í sjálfu sèr, hvort þörf sè að fjölga fulltrúum, þá hefir höf. villzt hèr útí allt annað, sem bæði er óveruligt í sjálfu sèr og á hvergi við þegar um Ísland er að ræða; vèr höfum ekki leidt þær ástæður til að fulltrúum þurfi að fjölga, að ætla verði menn til að fylgja fram hagsmunum sèrhverrar stèttar sèrílagi; slíkur skoðunarmáti mun án efa allstaðar sprottinn af því, að menn hugsa framar um hag einstakra stètta, enn allra í einu, og hefja því ekki hugann nógu hátt eða jafnt yfir alla þjóðina, þegar menn tala um hinn eiginliga kjarna eður aðalmið fulltrúaþínga. Vèr ætlum því ekki einusinni að hagnýta oss þessa hagsmunareglu höf. til að sýna, að eins illa færi fyrir nefndinni, ef ekki enn verr, ef henni hefði átt að fylgja, þareð nefndin hefir einúngis litið á hag jarðeigenda, og svo mun mega kalla að hagur konúngsins sè einnig drjúgum tekinn til greina, þar sem fjórði hluti allra þíngmanna er fyrir hans hönd, og má vera að enn fleiri verði að tiltölu, þegar á skal reyna. Vèr getum þess einúngis, að þó ekki væri litið á annað enn ójöfnuð þann, sem nú er á fólksfjölda og víðáttu og atvinnuvegum, með öðru fl., milli heraða, sem hafa jafnmarga fulltrúa, og svo á hitt, að ógjörníngur er að kveðja varafulltrúa til þíngs frá öllum helmíngi heraðanna á svo stuttum tíma, enda

þó ekki geti hjá því farið, að nokkrir, og líkliga jafnvel margir, gángi úr skaptinu eður fatlist af veikindum eða öðru, þá er þetta eitt nóg til að sýna og sanna, að nauðsyn er að fjölga fulltrúum. Vèr getum ekki gjört í þessu atriði mikið úr því, sem segir í bænarskránni 1837, þareð þar er einkum haft fyrir augum, að 3 fulltrúar í Hróarskeldu mundi verða landinu kostnaðarsamari enn 19 úti á Íslandi; þaraðauki er fulltrúatalan nefnd þar að eins, en hitt einkum tekið fram, að þíngið verði stofnsett í landinu sjálfu; þessa æstu og Íslendíngar þeir, sem hèr voru í Kaupmannahöfn, í ávarpi sínu til konúngs, þegar hann kom til ríkis. Þessvegna er framar að marka brèf Austfirðínga í þessari grein, því þar er borin fram hrein og bein ósk (um 42 fulltrúa), og leidd rök til; þar er og lagt fyrir hversu haga ætti, ef fara skyldi eptir hag stèttanna í fulltrúaskipun, með miklu meiri nærfærni og umhyggjusemi um allra gagn enn höf. gjörir; að öðru leiti getum vèr borið ofaní hann með öllu dylgiur hans, að brèf þetta muni annaðhvort eiga hèr upptök sín, eður að róið hafi verið undir það hèðan.

Höf. lætur sem vèr sèum að halda því fram, að alþíngi mundi aukast "vald og álit", ef fulltrúunum væri fjölgað, en vèr höfum hvergi talað þessum orðum sem hann hefur eptir oss; vèr vitum heldur ekki hvort hann ætlar til að orð sín: "að ótta með atkvæðafjölda", skuli vera viðvörun handa konúnginum, að Íslendíngar, og vèr þá einkanliga, búum yfir upphlaupum, eða hann ætlar með bitrum háðyrðum að hælast um, hversu eðallynd þjóð hafi eittsinn verið flett öllum verjum með ofbeldi danskra fógeta og mannbunda þeirra er þeim veittu, þvert ofaní vilja og ósk konúngs. Vèr hèldum að eins, að yrði þíngmönnum fjölgað mundi þíngið verða við það ástsælla, og virðíng þess vaxa hjá þjóðinni, þaraðauki, að því mundi bætast því fleiri vitrir menn og mentaðir, og aðgjörðir þess verða því betur af hendi leystar og atkvæðameiri. Þetta

er byggt á náttúru-lögum þeim, sem hvorki höf. né nokkurr maður getur hrundið með orðum einum.

Ástæðum þeim, sem teknar eru af kostnaðinum, mælir höf. bót með því, að segja frá óánægju þeirri, sem hann þykist hafa orðið varr við útaf sakafallstolli, ferðakostnaði embættismanna o. þ.; vèr ætlum ekki að fara neinum orðum um atriði þessi í sjálfum sèr, heldur geta þess að eins, að sá sem slengir þvílíkum gjöldum saman við alþíngiskostnaðinn, hann hlýtur að líta á peníngahæðina eina*, en það gjörir þjóðin ekki, þegar hún er þess fullviss, að gjöldin eru til sannra nota og þeim er viturliga varið.

Höf. hefir ekki hnekkt því í minnsta hóti, sem vèr mæltum með breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar í Hróarskeldu, nema það skyldi vera með því, að "gjöra ráð fyrir", að þeir menn sè betur að sèr enn aðrir sem eiga töluvert í jörðu, en þvílík "ráðagjörð" er öldúngis ástæðulaus, einsog hverr maður veit, sem hefir að eins nasasjón af hvernig mentun manna er háttað á Íslandi.

Vera má, að sumum kynni að virðast svo í fyrsta áliti, sem höf. hafi sýnt, að hann hafi hugsað betur enn hann er vanur, þar sem hann er að mæla fram með tvöföldum kosníngum á Íslandi; en hyggi menn nákvæmar að, þá má sjá að hann hefir ekki gjört annað enn velgt upp orð meistara síns (Melsteðs kammerráðs); einkum hefir honum mistekizt þar, sem hann deilir við oss, og eina mótsögnin, sem hann hlakkar svo mjög yfir að hafa fundið hjá oss, og býr óðar til úr "ógrynni af mótsögnum hvað ofaní annað", er gjörsamligur misskilníngur hjá sjálfum honum. Vèr höfum ætíð tekið það fram, að oss þætti það mestu varða að þíngið verði þjóðligt, að það efli

---

*) Höf. hefði þá líka getað vitnað til bænarskrárinnar frá 1837, er tiltekur 1 rd. 3 mk. í skotpenínga handa hverjum alþíngismanni.

mentun og þekkíng þjóðarinnar á stjórnarmálefnum, og þessi er talinn vera tilgángur ráðgjafarþínganna, jafnframt og hitt, að konúngurinn, sem hefir aðallykil stjórnarinnar í höndum, og þjóðin, nái að skipta hvort við annað. Af þessu er það ljóst, að vèr berjumst hvorki með nè mót tvöföldum kosníngum í sjálfu sèr, heldur æskjum vèr, að allir þeir menn, sem annaðhvort vegna stöðu sinnar eður mentunar eiga rètt á að taka þátt í almennum málefnum, megi hafa jafnan hlut í stiptun sem stofnuð er allri þjóðinni til velferðar. Vèr ætlum því muni auðskilið, bæði að vèr kjósum heldur að menn eigi þátt í einföldum kosníngum enn tvöföldum, og heldur í tvöföldum enn alls ekki. Fyrir því ætlum vèr og, að þarí sè engin mótsögn, þó vèr tökum uppástúngu Melsteðs heldurenn nefndarinnar (breytíngaratkvæði hans hið síðara afsölum vèr oss með öllu), og að vèr æskjum hins, að kjörstofn hans verði samfara einföldum kosníngum. Hvort enar einföldu kosníngar fara fram á þann hátt, að hver sýsla verði kjörþíng sèr, eða hverr hreppur, eða teknar verði upp nýjar kjörsveitir, það þykir oss minna undir komið, en víst er það, að þó kosið væri að hreppum til, þá á það dæmi hvergi við, sem höf. tekur af því, hversu háttað er um kaupstaði og landheruð í Danmörku, því bæði er það, að Reykjavík, sá eini kaupstaður sem nokkuð kveður að á landinu, er látin vera kjörþíng sèr, og þaráofan er fólksmergð í hreppunum allstaðar nokkurnvegin jöfn, og að endíngu mundi reynslan sanna, að menn mundu koma sèr saman um að kjósa fulltrúa, þó kosið væri að hreppum til. Vèr ætlum ekki að ansa því sem höf. vekur máls á, hvort en danska stjórn hafi nokkurntíma reynt að róa undir kosníngar, en hitt getum vèr sagt, að vèr höfum hvorki fyrir augum stjórnina nè hina dönsku embættismenn, heldur alla eigingjarna menn og hègómliga, og kynni sumir slíkir að hittast, er einúngis þætti undir því komið að trana sèr fram í röð alþíngismanna, þótt ekki hefði þeir

neinn annann tilgáng æðri eður hálcitari fyrir augum sèr. Hèr á ofan mundi mega telja staðfestu þá í lund Íslendínga, sem höf. telur þeim til gyldis, sem nýja ástæðu fyrir því, að óhætt væri að gefa þeim meira kosníngarfrelsi, og það er víst, að ekki verður það takmarkað til muna án þess að margir verði á hakanum sem skilin eiga alþíngisrèttindi, og mun þar af kvikna mègn óánægja, sem von er.

Vèr verðum enn að sýna höf. lærdóm vorn, og minna hann á, að "Íslendínger" er rángmyndað danskt orð, en á rèttu dönsku máli ætti "Íslendíngr" að vera "en Islænding".

Höf. mun geta getið nærri, að vèr munum ekki áræða að sækja um aldursleyfi *(veniam ætatis)* hjá kanselliinu eptir enar ógurligu hótanir hans, en vèr vonum að bæta þann brest með aldrinum; hversu mundi honum þá gánga aptur á móti að fá æskuleyfi *(veniam juventutis)*, sem auðfundið er að honum liggur lífið á, dáðlausum manni í andligum skilníngi og dauðum úr öllum æðum?

Íslendíngr.

## ATHUGASEMD.

Þessir menn hafa nú nýliga verið nefndir til alþíngis af konúngs hendi:

Fulltrúi konúngs: Bardenfleth, kammerherra, sá er var stiptamtmaður á Íslandi.

Fulltrúar konúngvaldir: Bjarni Þorsteinsson, konferenzráð og amtmaður, Þórður Sveinbjarnarson, forseti í landsyfirrèttinum, Steingrímur biskup Jónsson, Þórður Jónasson, dómari í landsyfirrèttinum, Helgi prófastur Guðmundarson (Thordarsen), dómkirkjuprestur í Reykjavík, Björn sýslumaður Auðunarson Blondahl; en varafulltrúar: "Provst Petersen til Thingöre" (sira Jón Pètursson, sem andaðist í fyrra og Jón Þorsteinsson jústizráð og landlæknir.

Til aðstoðar konúngsfulltrúa er tekinn kammerráð og riddari Páll Þórðarson Melsteð.

Alþíngi er nú stefnt saman með konúngsbrèfi til 1ta dags Júlí mánaðar 1844.

---

## PRENTVILLUR:

Bls. 7, l. 17, l. og ætlaðir til ráðg.
Bls. 19, l. 7, l. 20—30 búendur.

---

